# SAGAN

AF

# ÞJALAR-JÓNI,

GEFIN ÚT

AF

GUNNLAUGI ÞÓRÐARSYNI,

KOSTUÐ AF

EGLI JÓNSSYNI.



REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. E. ÞÓRÐARSON.

1857.

Af sögu þessari eru til í handritasafni Á. Magnússonar á Sívalaturni í Kaupmannahöfn þrjú handrit, og eru þau: 1. 585 E í fjögra blaða broti, og er það nefnt A í útgáfu þessari, og eptir því er sagan hjer gefin út, nema að því einu, að einstöku orð eru tekin upp eptir hinum handritunum, þau sem annaðhvort vantaði í A, eða virtust þar aflöguð. Annað handritið er 181 L í tveggja blaða broti, og er það hjer kallað C, og er það að mestu samhljóða 585 E, bæði að frásögninni og rjettrituninni. Þriðja handritið er 537 í fjögra blaða broti, og er það hjer kallað B. Í handrit þetta vantar kafla; eru síðustu orðin á undan eyðunni: *Jarl bað menn sína sökkva mèr,* í 11. kapítulanum, en það byrjar aptur í 16. kapít., á orðunum: *Pat hugði jarl, at Eiríkr mundi hefna sín.* Aptur að eyðunni er 537 æði-fráðrugðið hinum handritunum að orðunum til, en með því efnið er hið sama, en sagan engu betur sögð en í A, þótti óþarfi að hafa frásögu þessa handrits neðanmáls, og að eins til að lengja bókina að óþörfu; en fyrir aptan eyðuna er aptur handrit þetta

að mestu samhljóða hinum handritunum. Öll eru handrit þessi mjög ung. *Cand. philos.* Gunnlaugur Þórðarson í Kaupmannahöfn hefur ritað upp sögu þessa eptir 585 E, og borið saman handritin. Rjettritunin er og eptir hans undirlagi. Skólakennari Halldór Kr. Friðriksson hefur leiðrjett prófarkirnar; hefur hann og leiðrjett fáein orð, er virtust misskrifuð af Gunnlaugi Þórðarsyni, ef samrœmi skyldi vera í rjettrituninni. Eptir hann eru og allar neðanmálsgreinarnar, nema sú sem er í 27. kapít., og eptir hann er og útskýring vísnanna aptan við.

Verði þessari sögu vel tekið af löndum mínum, hef jeg í hyggju, að gefa út með tímanum fleiri þessa kyns sögur, eptir þeim handritum, sem bezt verða fengin.

Reykjavík í marzm. 1857.

*Egill Jónsson.*

Hèr hefst saga af

# Þjalar-Jóni

## ok Eiríki forvitna.

---

1. Vilhjálmr hefir konungr heitið, er rèð fyrir Frakklandi; hann var ríkr konungr ok ágætr, vitr ok góðgjarn; hann hafði atsetr í Rúðuborg í Vallandi, því at Rúðuborg hefir verit höfuðborg í því landi. Hann átti Elinborgu, dóttur Hlöðvers konungs af Frakklandi. Þau áttu einn son, er Eiríkr hèt; hann var manna fríðastr ok mikill vexti, ok vel á sik görr um allar íþróttir, er listugan karlmann mátti prýða; margar tungur kunni hann, sem gengu í nálægum löndum. Þá er Eiríkr var 15 vetra, fèkk faðir hans honum 5 herskip sèr til skemmtunar, vel skiput af mönnum ok fjárhlutum; hèlt hann þeim í hernað, ok varð gott til fjár; en at hausti hafði hann tíu skip, ok hèlt þeim aptr heim í Valland, ok var með föður sínum um vetrinn. Ok um vorit lætr hann búa þessi 10 skip, ok herjaði í Austrveg[1] um sumarit; hann hafði sigr ok gagn, hvar sem hann barðist. En at hausti hafði hann 15 skip, hlaðin af gózi öll saman; hèlt

---

[1]) Vestrveginn, B.

hann þá heim um haustið, ok sat með föður sínum um vetrinn. Ok með því at Eiríki gekk vel þessi iðn, þá lagði hann í hernað hit þriðja sumar þessum 15 skipum, ok svo varð hann frægr í sínum hernaði um Austrvegu, at eigi þótti annarr herkonungr honum meiri; hann herjaði aldri á kaupmenn eðr friðmenn, en konungar ok ríkismenn, ef þeir frèttu til ferða hans ok hernaðar, þar með ættar ok siðsemdar, görðu þeir í móti honum veizlur ok heimboð, móti honum gangandi með öllum prís ok fagnaði, hèr á ofan at lyktum leggjandi stórar fègjafir úvirðanligra gripa ok gersima; því hafði hann friðland í hverju sem einu konungsríki. Hit fjórða sinn var búin ferð hans með 20 skipum; ok er hann var búinn, leiddi konungrinn sjálfr, faðir hans, ok Elinborg móðir hans ok öll alþýða út í frá hann til skipa, biðjandi hann vel fara ok heilan aptr koma.

2. Nú sitr Vilhjálmr konungr í Rúðuborg í Vallandi; var þat í þann tíma mikil borg ok fjölmenn. Svo var háttað, at í austr ok suðr frá borginni var fjall eitt mikit, hátt ok af hömrum umgyrt, svo eigi komst upp á þat, nema fljúgandi fuglar, ok engi maðr vissi, hversu þar var umhorfs uppi á, en undir fjallinu voru vellir slèttir ok mjök fagrir. Konungr henti mikit gaman at knattleikum. Þat er sagt einn blíðan veðrdag, at konungr boðar út sína riddara á áðr nefnda völlu til burtreiðar. Konungr sjálfr fór ok með, ok var settr undir hann stóll; ok er hann hafði um stund setið,

tók hann at horfa upp í fjallit, ok hafði þar aldri augu af. Ráðgjafar konungs, Ammon ok Abinon brœðr, spyrja konung, hví hann sè svo starsýnn í fjallit, at hann gæti eigi leika fyrir því. Konungr mælti: „Ek sè nýbreytni nokkura á fjallinu, [líka sem jóreyk af reið mannafjölda[1]; munda ek ætla umbrot nokkur; en þat er því úlíkligt, at ek veit þar engri skepnu vist vera“. En á liðnum degi sjá þeir mann ganga úr fjallinu; hann hafði á herðum sèr því líkt sem malr væri; heldr leizt þeim hann mikill. Hann víkr þegar þangat, sem konungr sitr, heilsar honum ok mælti: „Sitì þèr allra konunga heilastr, með sœmd ok virðing, sóma ok friði“. Konungr tók vel kveðju hans, ok spurði, hverr hann væri. Hann svarar: „Kallit mik Gest Gunnólfsson, en ætt mína eðr óðaljörð kann ek eigi at segja. En bráð eru brautingja örendi; ek vil biðja yðr vetrvistar“. Konungr sagði: „Vandhœfi eru á því, er þú vilt eigi segja ætt þína nè óðaljörð; hefi ek ok eigi tíðkat, at taka við þess háttar mönnum; lízt mèr svo á þik, sem þèr muni vandveitt vera, ok muntu leita þèr annars“. Gestr mælti: „Aldri heyrða ek konung svo mæla; skal ok eigi þess lengi biðja, er eigi má veitast; lif nú allra konunga veilastr ok vesalastr; skal ek þinni sínku[2] ok eymd við bregða, þar til ek finn þèr annan vesalli“; gengr hann síðan snúðugt út úr

[1]) Frá [ ok er því líkt at sjá, sem jóreykir sè, ok ríði margir menn, B. [2]) sínk, A; sínkni, B.

mannhringnum. Konungrinn sitr eptir ok horfir í gaupnir sèr, ok mælti til ráðsmanns síns: „Seg gesti þessum, at hann komi til mín; ek vil tala við hann“. Hann görir svo. Kemr Gestr þegar fyrir konung, ok spyrr, hvat hann vili. Konungr mælti: „Með hverjum hætti gekktu yfir fjall þetta, er engi má yfir komast?“ Gestr svarar: „Á fótum fór ek yfir fjallit, ok hefi ek þar rutt götu svo breiða, at aka má tveimr vögnum í senn, ok rutt urðum í gljúfr ok gil jarðarinnar, svo þar er nú eigi úslèttara en þjóðvegr“. Konungr mælti: „Mikit þrekvirki hefir þú unnit, eðr hvat hefir þú fleira til haft, en hendr þínar?“ Gestr svarar: „Ek hefi fœrð niðr stór brot með viðum ok sigum á aðra endana, ef eigi hefir gengið elligar, ok fœrt svo stór björg úr stað, en þat grjót sem jarðfast hefir verit, hefi ek höggvit með berghöggum, ok slètt yfir með því, ek hefi í hendinni, ok var ek at þessu 2 mánuði“. Konungr leit á handhœfi[1] hans; var þar á eitt skapt ok járnhólkar á endunum, en úr fram járn fjögurra álna hátt, ok því líkt at görð, sem þjöl eðr höggvinn tannrefill. Konungr sagði Gesti til reiðu vetrvistina, ok sagði hann vel hafa til hennar unnit. „Þiggja mun ek vistina“, segir hann; „en vegr þessi er skemmri, en þèr mundut hugsa, um fjallit, þat sem torveld hefir verit í at brjóta, en þó vil ek, at þèr gefit nafn leiðinni, því hana munu margir fara“. Konungr görði svo, ok kallaði hann Þjalarveg, ok

[1]) handhöfn, C.

þat hefir við hann fest síðan; er þat eigi meir en morgunleið til þeirra hèraða, er áðr var á mörgum dögum at sœkja til. Nú bað Gestr konung, at fá sèr eitt hús at sofa í, ok einum sèr sæti, sem engi settist í annarr. Konungr görir svo; fèkk honum eina maltshlöðu, ok sæti á hinn úœðra bekk næst hirðmönnum. Gestr býr vel um í því húsi; sœkir hann nú þing sín leyniliga á fjallit, þar sem hann hafði þau geymt. Gestr var jafnan hljóðr, ok átti fátt við aðra menn.

3. Um haustið þá er sèn sigling Eiríks með 30 skipa. Dreki sá, sem hann stýrði, var tjaldaðr dýrligum klæðum, ok var hans sigling hin skrautligasta. Konungr ok drottning ok öll alþýða ganga í móti honum. Nú er Eiríkr heim kominn, ok er skjótliga um talat fyrir honum, hvat gestr þessi hefir unnit, hinn mikli, um vegabót á Vallandi; ætluðu þat margir, at hann væri tröll eðr stigamaðr, en sumir leiddu um öðrum getum. Eiríkr bað menn gefa sèr fátt at um þenna mann. Gestr át jafnan brauð ok drakk lítið, en hèlt háttum við aðra menn; þó var hann kátr við sína sessunauta, ef þeir yrtu orði á hann; stórr maðr var hann ok sterkligr; lengstum var hann í kufli eðr loðkápu, ok mátti eigi sjá glöggt bolsvöxt hans. Rauðr hèt maðr, er hafði útgörðir fyrir konungi; hann var öfundsamr ok úheill í lyndi, sterkr ok varla einhamr. Hann mælir svo til konungs: „Hvat man varða[1], þó ek

---

[1]) þannig B; verða, A.

setìst í sæti gests þessa?“ Konungr kvað slíks enga þörf, ok kvaðst engan hlut í eiga, ef Gesti líkaði eigi. Rauðr görði, sem hann hafði talat, en í því gekk Gestr í höllina, ok bað hann braut ganga. Rauðr sagði: „Ek hygg þetta sæti eigi vera verr skipat, en áðr“. Gestr greip þá um lær honum, ok kippir honum úr sætinu, ok setr hann niðr á hallargólfinu svo hart, at beinin brotnuðu í honum; varð hann aldrigi at þrifum síðan, ok var hann í burtu borinn; en konungr gaf Gesti þetta eigi at sök. Ok undruðust allir menn afl hans, ok leit hverr til annars. Þat var einn tíma, at Gestr var seinn til sess síns. Eiríkr konungsson settist í sætið. Konungr bað hann eigi þar sitja, en hann sat sem áðr. Litlu síðar gekk Gestr í höllina, ok fyrir Eirík, ok mælti: „Þú munt þykjast eiga ráð at sitja hèr“; ok gekk síðan burt, ok út til húss síns. Eiríkr gekk út eptir honum, ok áðr Gestr gæti lokat húsit, kom Eiríkr ok bað hann upp láta. Gestr görði svo, ok þó heldr seint. Gengr Eiríkr inn, ok sèr hann þar er tjaldat með hallarbúningi svo vænum, at aldrigi þóttist hann þvílíkan sèt hafa fyrri; hann var víða gulllagðr ok görr með hinum mesta hagleik; dúkar lágu niðr á jörðina, víða silfrofnir. Eins manns hvíla var í húsinu, en salúnit yfir sænginni var gullskotit pell, ok svo hœgindisverit; upp yfir hvílunni var einn gullhringr mikill. Konungsson tók ofan hringinn, ok sá, at hann var í 13 hlutum, ok í sumum hlut-

um lýsigull, en í sumum rautt gull; eigi þóttist hann sèt hafa þvílíkan grip jafngóðan. Hann mælti við Gest: „Viltu selja mèr hringinn?“ „Eigi vil ek þat“, kvað hann. „Viltu þá gefa?“ sagði konungsson. „Miklu síðr“, segir Gestr, „ok ætlar þú mikinn örleikamun okkarn. Þá er þú komt úr hernaði, var borit heim skrúð ok skarlat ok góðir gripir, ok bað ek þik einskis, enda bauttu mèr ekki; þú settist í sæti mitt, ok sá ek þèr þótti við of vetrvist mín“. Konungsson segir: „Ek vildi reyna svinnu þína, ok því settist ek í sæti þitt. Hvat heitir hringrinn?“ Gestr svarar: „Af sindri ok seimi var sœgrinn görr, eðr hvat er þetta?“ Konungsson svarar: „Þat er sindr harðast, er leikr við hjarta manns, hugarangr allmikit, en rautt gull er seimr, en lýsigull er sœgrinn; en hringrinn er görðr í minning þess manns, er hugarangr hefir haft, at hann skuli því optar minnast sinna harma, er hann sèr hann fyrir augum sèr, ok kalla ek hann Gáinn“. „Vitr maðr ertu, konungsson“, segir Gestr, „því at sá maðr hafði hugarekka, er hringrinn var görr“. Konungsson sá, hvar stóðu kistur 3 í húsinu; hann bað Gest fá sèr luklana, at lúka upp kistunum. Gestr fèkk honum lyklana tvo, ok heldr seint, en settist á hina þriðju kistuna. Konungsson lýkr upp kistunum, ok sèr, at þær eru tómar, ok hugði þar hafa í verit húsbúninginn ok hvíluklæði Gests. Eiríkr bað hann fá sèr lykilinn þriðja, at lúka upp þeirri kistunni, sem hann sat

á. Gestr sagði þat eigi verða mundu, nema þeir þreytti orku um, „en þó kann vera, at þeim þyki sannast illgetur sínar á mèr, ef ek göri þèr harðleikit“. Hann kvað þá vísu:

Halda hlífðar aldri
hljótendr á hlyn spjóta;
verðr ek veiga skorðum
vaka ár af því fári.
Enn munu örva sennar
ýtendr of mik flýta
orð, at ek eigi virða
alltryggr, ef nú gyggnum[1].

Eiríki óx nú at meiri forvitni, at sjá í kistuna, sem Gestr kvað þetta, ok bað hann upp lúka. Gestr svarar, ok bað hann sèr eigi um kenna, þó honum væri þá verra í hug, en áðr. Eiríkr hèt góðu um þat. Gestr fèkk honum þá lykilinn, ok stóð upp af kistunni; en Eiríkr lauk henni upp, ok fann í öðrum enda kistunnar mörg smíðatól, forkunna-vel görð. En í kistuna var felld ein brík, ok þar öðru megin klæði eðr pakki af skarlati, ok utan um lèrept; en er hann rakti í sundr, var þar í innan pellsklæði, ok þar næst silkidúkr, en í dúknum var meylíkneski, klætt guðvefjarpelli, svo fagrt ok lífligt,

[1]) Vísa þessi stendur eigi í B, enda mun það víst, að sá, sem snarað hefur þessari sögu, eða einhver sá, er síðar hefur ritað hana upp, hefur skotið henni inn; en með því orðin, sem á eptir koma, eru miðuð við vísuna, virðist eigi mega fella hana hjer úr.

at hann meinti líf mundi með vera, ef fylgt hefði hiti ok mál. Eiríkr mælti þá: „Undarliga mun þessi mey fögr vera, sem þessi líkneskja er eptir mynduð, ok þess strengi ek heit, at ek skal þessa mey eiga, ef hún er úmenguð, eðr enga ella, ef hún er á lífi, ok eigi drekka heima í Rúðuborg fyrri jól, en þetta er ent“. Gestr brosti at ok mælti: „Þetta muntu eigi ent fá, ef þú nýtr einna þinna ráða at, en kalla mun ek þik Eirík hinn forvitna“. „Þá mantu gefa mèr hringinn Gáinn í nafnfesti“, segir Eiríkr. „Fjarri ferr þess“, segir Gestr, „ef ek veit, hvat ek göri“. Eiríkr frètti, hvort hann kynni at smíða með öllum þeim tólum, er þar voru saman komin, eðr heyrðu til hvers háttar smíðis, sem hafa þyrfti. Gestr sagðist þurfa þeirra allra. Þá spurði konungsson, hvort hann hefði smíðat hringinn eða líkneskit. [„Ek hefi smíðat“, segir Gestr; „en mikit mundi yðr til finnast, ef þèr ættið þvílíkan kost, sem hún var“. Gestr vildi eigi fleira tala at sinni[1].

---

1) Frá [ er tekið upp eptir B, en í stað þeirra orða hefur A og C þetta: „Gestr kvað þá vísu:

Hlær þá er hlíðar máfar
í hug minn komit þínum
stafns verðr ek gjarn til gæfnar
gæðindis fyrir mik hœla.
Úlfr veit um sín sjálfa
sædags lofa ok fagra
mèr verðr grimmd at grandi
grafsilfrs etið hafði.

4. Nú gengr konungsson burt af húsinu, en menn hans stóðu umhverfis um húsit, ok vildu eigi inn ganga á tal þeirra. Eiríkr gengr nú til konungshallar, ok segir upp heitstrenging sína ok viðrtal þeirra Gests, en konungr ok drottning ok öll hirðin varð hljótt við þetta, ok sögðu, at vèlar Gests hefði ollat þessari úgiptu. Ok er vorar, spyrr konungr son sinn, hvat hann ætlar sinna ráða. Eiríkr sagðist ætla úr landi með 30 skipa, at leita at konuefni sínu. Konungr bað hann leitást um við Gest, at hann rèðist til ferðar með honum; en Eiríkr kvaðst eigi kunna at biðja hann hèr mikilla muna um, en þó gengu þeir til stofu. Gestr stóð upp í móti þeim, ok kvaddi konung vel: „Eru þèr sjaldsènir hèr“, sagði hann; „eðr eru þeir nokkurir hlutir, er þèr vilìt mèr til segja“. Konungr mælti: „Þat vilda ek víst, at þú rèðist í ferð með Eiríki syni mínum, ok værir í ráði með honum, at hann kœmi fram heitstrenging sinni, því at mèr þykir þetta mikit af þínum völdum orðit hafa“. Gestr mælti: „Eigi veit ek mik valda ummælum sonar yðar, þó eigi vilda ek verja honum afli, at sjá eigur

Fenrisúlfurinn vissi, hvat hann tögg, þá er hann beit höndina af Tý Óðinssyni; ek mun ok görla vita, hvar ek hefi frá horfit; ek hefi ok smíðat þetta mannlíkan; mundi þèr ok mikit um finnast, ef þú sæir þá mey lifandi, er þetta líkneski er eptir markat. Gestr vildi þá eigi fleira um tala“, og er auðsjeð, að vísu þessari og greininni á eptir er bætt inn í af þeim, er snarað hefur sögunni, eða skrifaranum, enda er vísan eitthvað rangfærð.

mínar, eðr læsa fyrir honum, svo hann bryti þær upp. Nú mun ek fara með honum, ef hann játar, at ek skula ráða fyrir liði okkru, ok svo sjálfum okkr, meðan vèr erum í þessari ferð". Eiríkr játar því. Þá bað Gestr standa skipabúninginn; en svo sem fram leið nokkurr tími fram á sumarit, eigi allskammt, þá kom Eiríkr á mál við Gest, ok spyrr hann, hvar til hann ætlar at bíða, en hann kvað enn eigi of seinat.

5. Gestr bað nú Eirík búa 80 riddara, þeirra er hann fengi vitrasta ok röskvasta til vopns, ok at auki 20 sveina ok matgörðarmenn til hinnar lèttari þjónustu. Ok er þetta lið er albúit, segir Gestr, at þeir skuli ríða Þjalarveg ok fara landveg. Konungr fylgir syni sínum á veg; þykir drottning ok öðru fólki mikit at skilja við Eirík. Ríða þeir nú brattan veg, þar til hamrarnir voru brotnir ok Þjalargata var rudd; var þat slèttr vegr ok breiðr, at aka mátti tveim vögnum eðr þrimr í senn, en hávir veggir hvoru megin, at ekki sá upp yfir sik, nema heiðan himininn; var þar fullt hvert gil ok gljúfr af grjóti, ok eitt hlið brotið á hliðveggnum, þar sem ríða átti af til áfanga. Nú koma þeir þangat til, ok stíga af hestum sínum. Gestr brá þá upp hringnum Gáinn undan yfirhöfn sinni, ok mælti: „Hèr er sá hringr, sem ek veit flesta kosti hafa, því at þeim manni má eigi granda eldr nè snjár, vötn eðr eitrkvikindi, ef hann hefir á sèr; hafi þèr nokkra freistni á, herra, at eiga hringinn

fyrir vetrvist". Konungr leit á hringinn, ok mælti: „Þetta er allmikil gersimi, ok virðist mèr, sem þèr muni hans meiri þörf nú, ok vil ek, at þú eigir hann". Gestr mælti: „Þetta var mèr spurn, konungr, því at hann gef ek engum manni at sinni, ef ek veit, hvat ek göri; en vita vilda ek, hvort þú hefðir meiri eigingirni á gersimum en ferð sonar þíns, hversu honum tekst til. Nú skal ek honum trúliga umbuna þessi þín orð, ef ek vinnumst til". Settust síðan niðr, görandi sèr skemmtan at orðum Gests, ok sögðu, at fullt hefði hann unnit til vetrvistar, er hann hafði ruddan þann veg, er þeir höfðu nú sèt, ok þat væri heldr trölls en manns. Gestr brosti at, ok mælti: „Sá gengr eigi einn til skógar, er einhverr fylgir". Eptir þetta skilja þeir konungr ok Eiríkr, ok biðr konungr vel fyrir honum. Ok er þeir Eiríkr koma á slètta völlu ofan af fjallinu, ríða þeir Gestr síðar[1], því at hann lèt, at sèr væri svo þungt, at eigi mætti hann ríða, ok lèt kynliga; en fyrir einum moldarbakka tók fram úr mannshandleggr skininn. Gestr mælti: „Fáir munu þik prýða"; hann hleypti niðr á hann hringnum, ok reið í burt veg sinn eptir, þar eð aðrir riðu undan; en Eiríkr veik aptr hesti sínum, ok tók hringinn. En er Eiríkr kom aptr, spurði Gestr, hvat hann hefði dvalit, en Eiríkr sagði honum. „Þat görðir þú vel", sagði Gestr; „vil ek þèr þat segja, at harðir mannshugir liggja á

[1]) Lagfæring fyrir síðan í A og C.

hring þessum stundum, at ek má þá eigi á honum halda; en því kom ek honum niðr í auðkenndum stað, at ek þóttumst þar heldr mega finna hann; en ek var nú ráðinn til, at hverfa aptr, er af mèr liði sá hinn grimmi hugr, ok því reið ek síðar, at ek vilda eigi aðrir yrði varir við þessa kynligleika". Eiríkr sagði svo vera mega.

6. Þar er eigi frá sagt, hversu lengi þeir riðu landveg; en hins er getið, at þeir komu á slètta völlu, undir fjallshlíð eina; á þeim velli stóðu stórir steinar ok fagrir hamrar. Gestr gekk at þeim steininum, er mestr var, ok drap við hendi sinni; urðu þar þegar dyrr á. Gestr gekk inn í steininn, ok út litlu síðar, ok með honum dvergr ok dyrgja; þau voru lág, ok skammt upp klofin, stuttleit ok nasabrött. Þau heilsa Eiríki konungssyni, en hann spurði þau at nafni. Dvergrinn sagði: „Ek heiti Svamr, en kerling mín Svama". Þá sagði Gestr: „Ek hefi beðit dverg þenna, er verit hefir fóstri minn, at hann mundi ljá mèr skip sitt um hafit, at sigla til þeirra landa, sem ek vilda fara, en hann lèt seint við". Eiríkr spyrr, hverja leigu hann vildi hafa. Dvergrinn mælti: „Ef þú vilt vera minnigr, ok fara fram ráðum Gests, þess er mik kallar fóstra sinn, þá mun duga at nokkru hófi, ef auðna vill til falla, en eigi elligar". Eiríkr sagðist því játað hafa. Nú gengu þeir til sinna manna, því Gestr hafði svo fyrir ætlat, at dvergarnir yrði eigi af öllum sènir. Þeir sofa nú af náttina. Lètu þeir Gestr

ok Eiríkr konungsson flesk mikit ok smjör leyniliga til steinsins. Ok er þeir vöknuðu, gengu þeir leyniliga tveir saman til steinsins; var þar úti dvergrinn ok dyrgjan, bæði kát ok brosleit, ok fögnuðu þeim allvel, ok báðu þá hafa þökk fyrir þann mikla kost ok hinn fagra, sem þeir höfðu þeim gefit. Dvergrinn gekk þá at einum miklum bjargsteini, ok klappaði á hamri sínum, en bjargit stökk sundr, svo at dyrr urðu á; þar var inni skip harðla vænt, með öllum reiða; þóttist Eiríkr eigi slíkt sèt hafa. Svamr mælti þá: „Þess skaltu njóta, Eiríkr, at ek, kerling mín og börn erum komin í land þitt, ok erum þínir þegnar; þess ok annars, at þú ætlar þèr þá ferð, er mèr þykir mikils um vert at vel takist; þess hins þriðja, at fóstri minn leggr allan hug á, þèr at fylgja. Nú er hèr skip, er ek vil ljá þèr, ok mæli ek þat um, at á fáist annat rúm, þá annat er skipat, ok þangat sè jafnan byrr, er þit vilìt sigla. Nú legg ek hèr til mína giptu ok kerlingar minnar, at ykkr takist vel“. Ok eptir þat minntust þau við Gest, ok œptu hástöfum, ok fóru í stein sinn, ok laukst hann aptr; en þeir gengu til sinna manna, ok báðu þá klæðast ok ganga með sèr. Sjá þeir nú skip í einum helli, harðla vænt, með öllum reiða; settu þeir þat fram á sjó, ok var þeim þat auðvelt. Gestr bað þá þar á ganga. Þeir frèttu, hvat af skyldi gjöra sumu liðinu. Gestr kvaðst þat mundu annast. En sem fjölgaði fólkit, fèkkst þá annat rúm, er annat var skipat; ok er

þeir höfðu hlaðit skipit, sem þeir vildu, varð hvœrtki of sett at borðum nè rúmum. Kom þá blásandi byrr, ok sigldu þeir í haf, ok hèlzt sá byrr, allt til þess þeir sáu upp koma fagrt land ok stóra borg með vænum turnum.

7. Þat er nú sagt, at sem þeir sjá land þetta, þá spyrr Eiríkr Gest, ef hann veit nokkut til, hvat land þetta er. Gestr sagði: „Þat hygg ek, at ek kenni land þetta, ok heiti Hólmgarðr, en austr af landinu Galitía, en í norðr Kœnugarðr ok Rússaríki, Kjarálaland[1] ok Risaland, Kvennland, Einfœtingaland, Smárramannaland, ok mörg önnur smálönd; margir konungar eru yfir þessum ríkjum; er þetta kallat Hólmgarðaríki allt um lengra, en sumir kalla Tartararíki; allir smákonungar eru lýðskyldir sjálfum Hólmgarðskonungi. Nú eru vèr komnir at Hólmgarði, þar er Kœnugarðar liggja norðr af, ok at borg þeirri, er Kastellam heitir; hún er hafnborg bezt nálæg, en kaupstaðrinn út af borginni heitir Aspes. Hèr ræðr fyrir borg þessari, ok ríki því, er hèr liggr til af Hólmgarði ok Kœnugörðum, jarl sá, er Roðbert heitir; hann er svo fróðr, at hann talar allar tungur, þær mèr er sagt um allan heiminn muni ganga; hann er ok svo vitr, at hann kann nær til alls ráð; fátt kemr honum á úvart, þat sem honum má skaðsamlegt vera; eigi kalla ek hann góðráðan vera, því í því þykir mèr hann lítið eiga, en þó munu þèr þenna jarl heim sœkja.

[1]) Líklega misritað fyrir Kirjálaland.

Hann mun taka vel við þèr, er hann veit þú ert tigins manns son ok langt at kominn; hann mun spyrja, hvert þú ætlar at sigla. Þú skalt segja, at þú ætlir út yfir hafit. Hann mun segja sumarit mjök áliðit, ok mun hann bjóða þèr vetrsetu í borginni ok liði þínu, er þú hefir. Þat skaltu þiggja, ok biðja hann, at fá þèr einum samt ok þínu liði drykkjustofu ok svefnstofu, ok þau herbergi, er þèr megit vel í vera; seg, at menn þínir sè svefnstyggir ok illir við drykk at skapferli, ok lát þèr eigi annat líka; en jarl mun þó eigi aptr taka sín boð. Hann mun spyrja eptir glöggliga, hversu margmennr þú hefir farit, en þú skalt segja, at þú hafir haft 80 riddara ok 20 þjónustumenn. Jarl mun segja, at einum fleira hafi farit yfir hafit. Þú skalt þess berliga synja ok allir þèr, sem liggi við líf yðvart; seg þat ok, at ekki lífs kvikindi hafi með yðr farit. Kom þèr jafnan á tal við jarl, því af honum máttu mikit hyggnast; en skilja munu vit nú fyrst at sinni". Hann steypir sèr þá út af borðinu á sjóinn, ok í kaf; en Eiríkr siglir at landi. Jarlsmenn sá skipit, ok sögðu jarli, at þeir hefði eigi skrautligra skip sèt; því þat er steint fyrir ofan sjá, ok víða rennt gulli í skurðina, er á höfðunum voru; þeir höfðu ok dýr klæði at tjöldum ok seglum, ok sögðust ætla, at tilkvæmdarmenn mundu stýra skipinu. Jarl kallar þá ráðsmann sinn, ok biðr hann bjóða heim skipherranum, ef hann er tiginn. Hann görði, sem honum var boðit; gengr fyrir Eirík ok

kveðr hann, því honum var sagt, at hann væri þeirra formaðr. Hann spyrr hann at nafni ok ætt, en Eiríkr segir honum. En er sendimaðr hefir gört sitt örendi, gengr hann fyrir jarl ok segir honum. Ok er hann spyrr, at Eiríkr hefir hann heimsóttan, gengr hann í móti honum með sínum mönnum, ok fagnar honum með mikilli blíðu, ok býðr honum til veizlu, en Eiríkr þiggr þat, ok spyrr jarl hann, hvert hann vill halda liði sínu svo litlu; en hann sagðist ætla út yfir Grikklandshaf[1], ok kynna sèr útlenda höfðingja, ok nema svo góðra manna siðu; en þat þótti þá mikil frægð í þann tíma ríkum mönnum. Ok sem jarl heyrði, at Eiríkr hugði at sækja heim ríka höfðingja, hugði hann, at hans frægð mundi því víðara fara, sem hann veitti honum meiri heiðr; bauð hann Eiríki með sèr at vera um vetrinn ok öllu liði hans, en Eiríkr þá þat með blíðu, ok bað hann fá sèr drykkjustofu ok svefnhús einum saman ok önnur herbergi, því at menn hans væri illir við drykk ok úfyrirlátnir, ef hniti við. En þó jarl teldi hèr á nokkur tormerki, vildi hann eigi aptr taka boð sitt við Eirík. Hann spurði þá vandliga at, hversu margmennr Eiríkr væri; hann kvaðst hafa 80 vildra manna, ok 20 þjónustumenn. „Ok einum meir“, segir jarl. „Nei“, sagði Eiríkr; „eigi komum vèr fleiri saman á þetta land“. „Þá man verit hafa“, segir jarl, „hestr eða haukr, hani eðr nokkut lifandi kvikindi; þann veg leizt mèr

[1]) Þannig C; sjálfsagt misritað í A: Grjótlandshaf.

svipr yfir skipi yðru, þá er þat var í landssýn“. Eiríkr bað jarl eigi þat ætla, at hann lygi því at honum, er til einskis kœmi; og lagðist þar niðr þetta mál, ok er Eiríkr með jarli í góðu yfirlæti.

8. Svo er sagt, at einn tíma fyrir jól, um nátt eina, spruttu upp fjalir 3 úr því skoti, er var um sæng Eiríks. Þar var þá kominn Gestr, ok bað hann upp standa ok fara með honum, ef hann vildi sjá mey þá, er hann hafði heitstrengt at eiga. Eiríkr klæddist þá pellskyrtli, og gullhlað um ennit; sverð tók hann í hönd sèr. Gekk Eiríkr þá út um þilit, en Gestr kom í lag fjölunum, svo at nývirki mátti þar enga sjá. Þeir gengu þá niðr í jörð, þar til þeir komu í afhús eitt; en í jarðhúsinu var vatn eitt, ok mátti ganga með öðrum veggnum; [þat lèt hann því svo göra, at[1] hann þóttist hólpinn, ef menn yrði vísir jarðhússins, ok veitti honum fyrirsát, ef hann kastaði sèr á vatnið ok kafaði út undan veggnum. Gestr gekk nú þar til, at hann kippti upp þrimr hurðum; þá voru þeir komnir í stofu eina. Þar voru inni konur tvær svo fagrar, at Eiríkr þóttist enga fegri sèt hafa; þar þóttist hann þekkja konu þá hina yngri, er hann hafði fyrr sèt líkneski eptir markat. Þær konur runnu á háls Gesti, ok varð þar mikill fagnafundr með þeim; þær settu hann í milli sín, ok nefndu Jón.

9. Ok nú sem þeir hafa eigi lengi setið, talar Gestr til Eiríks: „Þú hefir fylgt mèr úr þínu landi

[1]) Frá [ er bætt inn í eptir B.

sakir forvitni þinnar, en nú mun ek lýsa fyrir augum þèr með einni frásögu. Ok er þat upphaf, at Svipdagr hèt jarl, er rèð hèr fyrir borginni Kastellam, ok því ríki, sem hèr liggr til, ok Kœnugörðum, ok þeim öllum borgum ok bœjum, ok öllum þeim ríkjum, er þar til liggja. Hans faðir var Dagr sterki; faðir Dags var Jón; þeir langfeðgar hafa ráðit fyrir ríkjum þessum fram í ættir. Svipdagr átti sèr drottningu, þá er Líkordes hèt, dóttir konungs Philippí af Flæmingjalandi; þau áttu tvau börn. Jón hèt son þeirra, en Marsilía dóttir; erum vèr nú hèr komin þrjú mœðgin. En þá ek var 8 vetra, en Marsilía 2 vetr, þá kom Roðbert hingat með fjölda skipa ok úflýjanda her, ok var nýkominn af Serklandi, ok hafði með sèr víkinga ok blámenn ok margt illþýði; hann hafði ok herjat um Austrveg, ok fengit þar 3 gripi svo ágæta, at slíkir munu eigi finnast. Einn er hringrinn Gáinn, ok drýpr af honum 9. hverja nátt gull, svo at maðr má af því fè sik sœmiliga halda; annat er sverð þat, er hann kallar Sigrvendil, ok á sá jafnan sigri at hrósa, sem þat berr; þriði gripr er hjálmr, er heitir Œgir; aldri er maðr svo lítilmótligr, ef hann berr hann á höfði sèr, at eigi sýnist ógurligr; þau álög fylgja ok þessum gripum, at þeim manni, er þá hefir á sèr, má eigi granda sjór eðr vatn eðr eitr eðr eldr eðr eitrkvikindi, nè eggjar. Nú sem Roðbert var á land kominn, sendi hann þegar menn til jarlsins með þau kostaboð, hvort hann vildi heldr berjast

enn næsta dag, er kœmi, eðr flýja land og drottningu sína fyrir honum. Svipdagr var bardagamaðr[1] mikill, ok hafði aldri á borizt fyrir honum í bardaga; sagðist heldr vilja berjast, en flýja land sitt; lèt þegar bera herör þangat frá borginni, sem komit varð fyrir úfriði Roðberts, en hann sjálfr bjó her sinn til orrustu. En sem Roðbert voru sögð kjör jarls, þá œstist hann þegar samdœgrs til orrustu, en jarl gekk út af borginni, ok varð þar hörð orrusta, en eigi löng fyrir dags sakir; hafði Roðbert lið miklu meira. Ok er hann sá, at eigi skarst úr fyrir þeim fyrir harðfengis sakir jarls ok hans manna, lèt hann halda upp friðskildi, ok sváfu af þá nátt.

10. Þessa nátt dreif svo mikit lið at jarlsbœnum, bæði af kaupstaðnum Aspide ok annarstaðar af borginni ok bœjum nálægum, at hann hafði nú litlu minna lið, en Roðbert. Ok sem Roðbert sá þat, fylkti hann sínu liði, þar sem voru hæðir nokkurar ok vígi gott. Sló nú skjótt í bardaga hinn harðasta. Jarl var sjálfr á hesti, ok hafði mikit riddaralið með sèr, ok var þó sjálfr hinn harðasti maðr, ok veitti hann svo harða atsókn, at lið Roðberts jarls hörfaði allt ofan af hæðunum. Nú eggjar hann lið sitt, því hann hafði einvalalið, vel búit at vopnum ok klæðum, en hann sjálfr hinn harðasti ok öruggasti til forráða fyrir fylkingum; hans lið var margt á hestum, ok gjörði þat mikinn skaða á mönnum jarls. Var þat lengi, at eigi mátti í milli

[1]) bardagamaðr bætt inn í eptir B.

sjá, hverìr sigrast mundu. Ok sem á leið daginn, dreif lið at jarli, ok snèri þá mannfallinu í lið Roðberts. Sèr hann nú, at eigi muni hann sigr fá á þessum degi, ok lèt því halda upp friðskildi, ok snèri síðan til herbúða sinna; dimmdi þá ok af nátt. Reið Svipdagr jarl í borgina með sínu liði, ok hugðist at vinna sigr at œrnum degi á Roðbert; uggði hann nú ekki at sèr, því at þeir voru kallaðir griðníðingar, er hlupu á aðra menn um nætr, þá er hvítum skildi var upp haldit, ok til þess at rauðr skjöldr var á lopt borinn um morguninn, er blásinn væri herblástr til úfriðar.

11. Nú er Roðbert kemr til skipa, lætr hann menn sína drekka sik glaða. Eptir þat kallar hann saman herinn hljóðliga, ok tekr svo til máls: „„Yðr er kunnugt, at jarl þessi er svo illr viðreignar, at hann hefir náliga komit oss á flótta, ok hefðim vèr eigi undan komizt, ef vèr hefðim eigi upp haldit friðarskildi; dreif nú ok at honum lið úr öllum áttum; ætla ek mèr eigi at hætta til fleiri okkarra funda, þeirra sem jafnmikill mannháski sè í; skulu vèr nú herklæðast sem skjótast, ok koma á úvart, höggva upp borgina, ok ganga at með ópi ok eggjan““. Þeir görðu nú svo. Ok en þó at lið væri margt saman komit, þá voru flestir felmtsfullir ok ráðlausir, ok vöknuðu af svefni við heróp ok vopnagný. Svo var, sem Roðbert væri vísat til, hvar jarl hvíldi; slógu þeir hring um þau herbergi ok brutu upp. Jarl spratt upp í línklæðum, ok

varðist vel. Lèt Roðbert sækja at svo fast, at jarl fèll; lèt hann þá drepa menn alla, þá sem mest voru vandabundnir við jarl ok vintengdir. Varð þá engin mótstaða; gengu þá allir á hans hönd, því at öllum sýndist hann ógurligr undir hjálminum Œgi. En með því þat var siðr hermanna, at fella konunga frá ríkjum, en kasta sinni eign á fè ok ríki, töluðu þat margir heimskir menn, at þat væri þess eign, er sótti. Lèt Roðbert þá gefa sèr jarlsnafn. Varð hann þá ok þess víss, at ek var sonr Svipdags jarls. Lèt hann þá taka mik, en allir lofuðu vöxt minn ok vænleik. Jarl brá sverði ok vildi höggva mik niðr við hallarmúrinn; en í því gekk at drottningin, móðir mín, ok bað mèr lífs, Jarl neitti því, ok mælti síðan: „„Með því ek ætla at taka þik mèr til drottningar, þá mun ek eigi drepa hann fyrir augum þèr"". Jarl bað menn sína sökkva mèr[1] í sjávardjúp fjarri löndum, ok höggva mik þar ok færa honum blóð mitt. Til þess urðu menn eigi fúsir, því flestir hugðu hefnd fyrir koma. Hirðmenn tveir eru nefndir; hèt annarr Hringr, en annarr Eilífr; þeir höfðu lengi verit með föður mínum, ok þjónat honum trúliga. Þeir buðust til þess verks, ok var oss fenginn einn bátr. Rèru þeir með mik undan landi. Þá mælti Hringr: „„Þat er vilì okkar brœðra, at gefa þèr líf, þó vit vitum þat okkarn bana"". Þeir tóku mèr blóð, ok lètu koma í ker eitt. Síðan fluttu

[1]) mèr tekið eptir B, í stað honum í A.

þeir mik í hólm þann, er Ilmarhólmr heitir, því þar voru trè ok alls konar grös ok epli at lifa við. Síðan rèru þeir at landi, ok sögðu, at þeir hefði drepit mik, ok steypt bolnum fyrir borð. Jarl beiddist at sjá blóðit. Þeir rèttu fram kerit, en jarl drap fingri sínum í blóðit ok brá í munn sèr, ok mælti: „„Þetta er lifanda manns blóð, ok hafi þit nú svikit mik, ok gefit líf Jóni jarlssyni, ok skulu þit nú ykkar líf fyrir gefa"". Síðan lèt hann taka þá, ok setja millum elda tveggja, því at þeir vildu eigi segja til Jóns; ok brunnu þeir báðir til dauðs. Eptir þat lagði jarl fè til höfuðs mèr, 12 merkr silfrs, ef menn kynni til mín at segja. En með því at flestum verða skaptir úhappamenn, ef þat er ætlat, þá fór mèr svo.

12. Maðr er nefndr Haki, húskarl einn, ok rèri jafnan til fiski. Þat var einn dag, at hann rèri hjá hólminum, at hann sá, at maðr var í skóginum í eynni, ok skemmti sèr í limunum uppi. Honum kom til hugar, at ek munda þar vera, ok hversu mikit fè jarl hafði lagt til höfuðs mèr. Ætlar hann, at hann muni fá fullfengi fjár, rœr at landi, ok ferr skyndiliga á fund jarls, ok sagði honum, at hann hafi sèt mann í Ilmarhólmi, ungan ok vænan, ok sagðist þat hyggja, at Jón mundi vera. Jarl bað menn sína fara til hólmsins; fór ok Haki með þeim. Þeir komu til hólmsins, leituðu mín ok fundu mik eigi. Þeir komu um síðir þangat, sem ek var; fór Haki fyrir þeim, en ek tók upp fuglaskeyti, ok

skaut ek í auga honum ok út um hnakkann, ok fèll hann dauðr niðr. Jarl reiddist þá enn af nýju, en ek hafða ekki vopna, utan fuglaskeyti, er ek veidda með til matar mèr, ok urðu þeir af því lítt sárir; varð þat ok at síðustu, at ek fèll til fóta jarli, ok lagða ek höfuð mitt í knè honum, ok allt á hans vald. Jarl bað þá binda mik, ok flytja mik til lands, ok þaðan til skógar, ok fylgdi mèr hirðin öll, ok Roðbert jarl. Allir menn hörmuðu mik. Ok í því ek var búinn at bindast við eikrnar, er þar voru saman sveigðar, þá gekk þar at fram móðir mín, ok bað mèr lífs, því at hún vissi eigi fyrri, at ek var fundinn, því at jarl leyndi hana þessu. Sótti hún fast þetta mál. Sagði hún, at hún skyldi þegar svíkja jarl, ef hún mætti, ef ek fengi þenna dauðdaga fyrir augum hennar. Þar kom, at jarl bauð, at mik skyldi setja í stokk á eyðimörk utanborgar; en því kvikindi var engu lífs at vænta, er á náttu var utanborgar, hvortki mönnum nè fè, fyrir ylgi þeirri, er á lá skóginum, ok öðrum eitrkvikindum, ok er svo víða um landit, þá sólu hallar. Var ek þá í stokkinn bundinn; fór ok um mik miðjan digr járngjörð, er læst var niðr í stokkinn; mörg bönd hafða ek á mèr önnur. Jarl lagði ríkt við, ef nokkurr hjálpaði mèr. Riðu menn síðan heim til hallar, ok læstu borgarhlið, ok þótti öllum mèr víss dauði.

13. Nú sem menn komu heim um kveldit, er frúin móðir mín mjök hrygg ok harmsfull. Hún

hugsar nú um, hversu hún mætti helzt hjálpa mèr. Síðan sendir hún þjónustumey sína með hunangsbyttur tvær, ok lèt koma á fingr henni gull þat, er[1] hana mátti eigi sjá; þat gull höfðu átt móðurfrændr mínir. Svo var þat með mörgum náttúrum, at varla mátti sá maðr farast, sem þat hafði. Mærin fór, þar til hún fann mik, þar sem ek sat bundinn í stokknum. Hún dreifði hunanginu á stokkinn ok umhverfis stokkinn; því næst gaf hún mèr fæðu, ok reið á mik allan hunanginu, ok lèt í munn mèr hunangslifr; síðan lèt hún gullit á fingr mèr; hún skar bæði af höndum mèr ok fótum, ok breiddi yfir mik skikkju sína. Eptir þat fór hún brott. Veðr var kalt, ok kól mik mjök. Ok sem af var þriðjungr nætr, þá heyrða ek hark mikit í skóginn, svo mikit, at hver eik brotnaði um þvera aðra; því næst kom fram ylgja, ógurliga mikil, svo at litlu bar hana lægra, en limar á skóginum; hún var fótlág, en búkdigr, halalöng ok höfuðmikil. Þótt hundrað riddarar fœri í móti henni, hefði hún skjótt alla í helju haft. Sá ek þá fyrir vísan bana minn. Kom mèr þá í hug sú trúa, sem boðin var fyrir utan hafit, ok þat, at sá mundi mikill, sem skapat hafði himin ok jörð ok alla skepnu. Staðfestist mèr þat í hug, at ek skylda þann sið fylla, ef ek kœmist heill í braut. Ylgrin fór sleikjandi um grasit ok um stokkinn, er hún kenndi hunangsþefinn; hún sleikti mik milli hæls

---

[1]) er vantar í handritið.

ok hnakka. Móðir mín hafði sent mèr kníf ok belti; hèlt ek á knífnum. En þá er hún hafði sleikt mik, rètti ylgrin tunguna í munn mèr, því at hún kenndi hunangsþefinn. Ek beit í tunguna, ok rak ek á rauf fyrir ofan, ok hèlt ek þar í, en aðra höndina rètta ek inn í munn ylginni ok skar úr tunguna í tungurótunum. Hún brá við svo hart, at hún hafði á lopti allan stokkinn, ok braut hann í sundr; var ek þá lauss; hafða ek þá tunguna úr ylginni, en hún lá í fjörbrotunum, þar til er hún dó. Svo hlífði mèr sá átrúnaðr, er ek hafða fest mèr í brjósti, at ylgrin lagði hvortki at mèr tennr nè klœr, heldr en væri járn glóanda. Tók ek þá yfir mik skikkjuna; hljóp ek þá úr þessum stað, þar til ek kom undir einn stað, þann er steinn var; mátta ek þaðan hvergi hrœrast fyrir kulda sakir, því at benjarnar sýldi, ok leið þá yfir mik úmegin. En er ek vitkaðist, var ek kominn í faðm kvikindi nokkru, ok hljóp þat með mik óðfluga, ok lagði mik undir einn stein; þetta var dvergr ok dyrgja. Þau þvoðu sár mín í kerlaug, ok lögðu mik síðan í mjúka sæng, ok leituðu mèr hœginda í öllu. En sem sár mín voru gróin mjök, mælti dvergr: „„Nú megu vèr eigi lengr hèr vera fyrir sakir fjölkynngis jarls þess ok illsku, er líf þitt vill hafa, ef hann má ná““. Eptir þat fluttu þau byggð sína í ríki Vilhjálms konungs, á þá völlu, sem nú eru þau. Dvergrinn talar þá til mín, ok sagði, at ek nyta föður míns ok þeirra góðra hluta,

er hann görði honum. Fèkk hann mèr í hendr hringinn Gáinn, ok sagðist hafa tekit hann frá Roðbert jarli, þá hann var í svefni, en hringrinn hefði leszt í samkomu einni, ok görðum vit þá hringinn saman í 12 hlutum, er áðr var í einum, ok köllum hann þá Gáinn, í þá minning, at ek skylda heldr gá minna harma við Roðbert jarl, ef ek kvæmimst í fœri um. Þat sagði hann ok, at jarl hefði mikinn hug á hringnum, at tveggja huga mundi orka, hvort ek gæta á honum haldit, ok fyrir þat görðum vit fjóra hluti í hringnum með þeim atkvæðum, at hann skyldi honum aldri ná. Ek nam at dvergnum margar íþróttir ok hagleik. Hann sagði mèr ok jafnan, hvat fram fór um háttu Roðberts jarls, ok þat, at hann vildi ganga at eiga drottninguna, móður mína, en hún beiddi, at hann mundi bíða 3 vetr, þar til hún hygði betr af hörmum sínum. En með því at jarl átti mjök sókótt um landit, en drottning var mjök stórráð, þá lèt hann þat til leiðast. Ok sem sú stund var komin, heimti jarl fram heit þessi ok beizlu hennar. Hún bað þá, at hann skyldi bíða Marsilíu dóttur hennar um 5 vetr, „„ok er þat kvonfang miklu sœmiligra; hún er ung, en ek gömul; man hún ok eigi til föðurdrápsins““. Jarl leiddist eptir þessu, ok festi hèr á hug sinn. Þá var ek 16 vetra, er ek rudda Þjalargötu, ok dvergar þessir með mèr; þótti af því leggja reyk mikinn á fjallit, af því vit surfum í sundr hvern hamar með undarligum tól-

um, sem dvergrinn hafði gört. Þá smíðuðum vit ok líkneskit eptir Marsilíu, þat er þú sátt heima í Vallandi, ok er hún nú 12 vetra, en ek 18. Hefi ek nú gört þèr þína heitstrenging miklu augljósari, en þú af vissir í fyrstunni; skaltu nú göra hvort þú vilt, vera lauss þinna ummæla við Marsilíu, eðr sœkja hana af jarli". Eiríkr sagði: „Þat skal ek enda, er ek hefi talat, at ek skal þessa mey eiga, eðr enga"; bundu þau þat með sèr. Þá mælti: Jón: „Nú skulum vit í burt ganga, ok er þó of lengi setið, því hèr er nú hugr jarls".

14. Nú gengu þeir braut, ok er þeir koma fram úr stofunni, þá gengr jarl í annan enda jarðhússins, ok tveir menn með honum. Annarr hèt Rogerus, en annarr Roðgeir; þeir höfðu verit með Svipdagi jarli, ok hafði Roðbert nauðgat þeim til þjónustu við sik. Hann hafði á höfði hjálminn Œgi, ok var gyrtr sverðinu Sigrvandli. Þá mælti Jón til Eiríks: „Vit megum jarli ekki illt göra, því hann hefir vopn sín; er nú eigi annat til, en at hlaupa á vatnit, ok kafa út undan húsveggnum". Ok svo görðu þeir. Jarl mælti: „Hvat skugga var at sjá innar í jarðhúsit?" Rogerus sagði: „Fugl einn fló inn um gluggann, ok svipaði um húsit, ok svo út aptr". „Undarligr fuglssvipr var þat", sagði jarl; skaut hann spjóti því, er hann sjálfr á hèlt í innanvert húsit; þat kom í lær Eiríki fyrir ofan knè, ok var hann þá kominn á vatnit. Eiríkr kippti spjótinu úr undinni, ok þerrði af

blóðit með kyrtilsskauti sínu. Síðan köfuðu þeir út undan veggnum jarðhússins. Þar var á hlið fyrir utan vegginn, ok gekk þat undir jarðhússvegginn. Roðbert jarl þerrði af spjótinu, ok leit á ok mælti: „Svo er sem blóðdropar sè á spjótsfalnum“. Þá sagði Roðgeir: „Þat er rauðr vatnsleirr“. Jarl gaf sèr fátt um. En þeir Eiríkr lögðust til lands. Þá mælti Jón: „Nú mun eflaust, at jarl grunar, hví þú ert sárr orðinn; en ef þú leynir hann, þá heldr hann þat sannast, at hann hafi særðan þik, ok er þat þinn bani. Nú veiztu, at hèr hafa verit 2 kaupmenn í vetr norrœnir; heitir annarr Þrándr, en annarr Árni; þú hefir slegizt á tal við Ingibjörgu, systur þeirra, ok hefir Þrándr gört sèr um þetta við þik mjök úþokkat. Nú er þat ráð mitt, at þú leitir um við Þránd, at þit görit svo ráð um, at honum sè kenndur áverkinn“. Ok er hann hefir sagt Eiríki, hverja meðferð hann skal hafa, skiljast þeir at sinni.

15. Nú gengr Eiríkr til svefnhúss síns, ok var þat læst, en hann lauk upp hverjum lás lykilslaust, ok gekk til sængr hljóðliga, ok vakti upp skjaldsvein sinn, ok bað hann ganga til Þrándar norrœna, ok sagði honum, hverja meðferð hann skyldi hafa. Hann görði svo. Eiríkr sat þar eptir ok batt sár sitt. Síðan vakti hann tvo trúnaðarmenn sína, ok gengu þeir til skemmu Ingibjargar. Eiríkr settist á tal við Ingibjörgu, sem hann átti vanda til. En sem skjaldsveinninn kom at herbergi því, sem

Þrándr svaf í, klappaði hann á hurðina. Hinn frètti, hverr þar væri. Sveinninn svarar, hann skipti þat engu; „en ek hefi við þik erindi, þat sem þèr er forvitni á at vita“. Þrándr lèt upp hurðina ok leiddi hann inn í herbergit, en sveinninn veik honum á eintal, ok sagði honum bœn Eiríks ok alla meðferð, hversu haga skyldi, ok þar með fèkk hann honum fèsjóð, sem Eiríkr hafði sendan honum; var þat mikit fè ok frítt, í gulli og silfri. Þrándr varð glaðr við fègjöfina, ok kvaðst göra mundu, sem hann bað. Sagði sveinninn svo fallit. En Þrándr vakti upp Árna bróður sinn, ok sagði honum orðsending Eiríks, ok sýnir honum fèt. Þeir brœðr urðu vel samhuga um þetta. Gengr Þrándr nú í herbergi, þar skipsveinar hans sofa, ok vakti þá upp, ok bað þá með sèr ganga. Síðan gekk hann til skemmu Ingibjargar. Eiríkr sat á hvílustokknum, en Ingibjörg lá í sænginni; var hann svo búinn, at hann var í línklæðum, ok undir kyrtill, en kápu síða yfir sèr; undir kápunni hafði hann knýtilskauta, þann er hann lèt blœða sèr í. Þrándr kom at loptinu, sem Eiríkr var í, ok hljóp á hurðina svo hart, at hún hraut upp; hann lagði spjóti til Eiríks, ok stefndi á hann miðjan; hann sneiddi þá svo til, at spjótið kom á milli fóta Eiríki. Hann brá kyrtilskautanum á spjótsoddinn, svo hann skarst í sundr; varð þá blóðugt spjótsskaptið ok svo sjálft spjótið. Hann hleypti þá blóðbandinu af sárinu, ok blœddi þá mjök, en brá því undir belti sèr. Eiríkr spratt þá

upp, en Þrándr hljóp út, ok í því gekk inn Árni, bróðir Þrándar, ok bauð Eiríki sjálfdœmi fyrir þetta hit illa verk. Var þetta ráð stofnat svo slœgliga, at engi hugði annat, en Þrándr hefði særðan Eirík. Sögðu þat vonum síðar hafa fram komit.

16. Þetta fló nú sem fiskisaga, at Þrándr hefði sært Eirík. Sendir þá Eiríkr eptir Roðbert jarli, ok lèt segja honum, at hann væri sárr. Jarl kom skjótt, ok batt sár Eiríks. Hann vildi nú vita, hvort þat sama er blóðit, sem Þrándr hafði á spjótinu, ok drap á tungu sinni, ok skildi, at þat var allt eitt blóð ok þat, er Eiríki hafði blœtt. Jarl frètti þá eptir í hljóði þá menn, sem hjá höfðu verit, um þenna áverka, ok sögðu allir, at Eiríkr hefði af Þrándi sárit fengit, því at engi vissi annat. Sár Eiríks grèri skjótt; varð hann heill fljótliga. Opt var hann á tali við jarl, ok nam hann af honum margar listir ok ýmsar tungur. Opt lèt jarl riddara ríða í burt ok skemmta sèr, ok reyndist Eiríkr afburðarmaðr í öllum riddaraskap ok atgörvi; lofuðu menn hann mjök. Jarl sagði þat víst, ef hefnt væri fótarsársins. Þat hugði jarl, at Eiríkr mundi hefna sín, ef Þrándr hefði veitt honum sárit, ef eigi væri önnur brögð í. Af þessum orðum jarls kom Eiríkr at máli við Þránd ok Árna, ok sagði, at jarl fœrði honum til hræðslu ok brigzla, ef hann hefndi sín eigi, ok því renndi hann jafnan grunum í, hvort hann hefði særðan hann. „Nú er svo komit tímum, at skipum er úhætt at

sigla, ok er þat mitt ráð, at þit siglit hèðan". Eiríkr gaf þeim brœðrum góðar gjafir, en Ingibjörgu kvennbúning, ok marga gripi aðra. Skildu þau öll með vináttu, ok sigla þeir norðr til landa, ok þóttu hinir beztu kaupdrengir; ok eru þeir nú úr þessarri sögu. Lèk nú sá orðrómr á, at því komu þeir brœðr sèr svo fljótt í braut, at Þrándr hræddist hefnd. Dró nú hinn mesta grun af jarli. Eiríkr virtist öllum mönnum vel af gleði ok lítillæti ok fègjöfum; hann var ok vitr maðr, ok sóttu margir traust til hans til góðra ráða.

17. Svo er sagt, at eitt sinn, er Eiríkr lá í hvílu sinni, at Jón kom til hans, ok bað hann upp standa ok ganga með sèr. Hann görði svo. Þeir gengu allan þann veg, sem fyrr, er hann hafði grafit úr jarðhúsinu upp í svefnskemmu Eiríks. Þeir komu í skemmu þá, er þær mœðgur sátu í. Þær heilsuðu þeim vel. Síðan settust þeir niðr. Þá mælti Jón til Eiríks: „Nú vil ek segja þèr tiltekt mína, þá sem ek hefi haft í vetr; ek hefi grafit dyrr á fjallinu Aspíde, ok fellt þar í hurð ok stórviðu, ok grœntyrft yfir; fjallit er fullt af vatni; þar hefi ek búit í skip, ok 80 manna, þeirra sem í landinu eru mest virðir, hefi ek tryggt undir mik með fègjöfum, ok hefi ek búit skip þat, ok flýtr þat búit fyrir landi. Nú vil ek, at þú biðir jarl, at hann stefni þing á völlum þeim, sem út eru af borginni; þar eru slèttlendi ein upp í fjallit ok ofan at sjá; fyrir framan völluna flýtr skipit. Þar

skulu á komnir menn þínir allir. En fyrir ofan völluna eru dyrr, þær er ek hefi á fjallinu grafit. Nú vil ek vita, hvort þú hefir at geyma hringinn Gáinn, síðan þú lèzt hann á hönd þèr". Eiríkr sagðist víst varðveita hann. Jón mælti: „Vissa ek, at þú tókt hann af hendinni, ok vilda ek reyna vizku þína; en ef jarl setr þingit, þá skaltu ganga vopnlauss fyrir jarl með ágæta gripi ok hringinn í hendi. Jarl mun kenna hringinn, ok ætla, at þú munir vilja gefa honum; hann mun því af sèr taka hjálminn Œgi ok sverðit; þá skaltu þat taka, ok taka til rásar ok freista, ef þú kemst á skip þitt. Þar liggr við líf þitt ok auðna, ef þú náir gripunum, því þá fær þú með auðnu jarls, en þó er hann eigi at sinni feigr. En í því þú görir þetta, þá mun ek ofan hleypa vatninu úr fjallinu á lið jarls; þar mun fylgja með skip á hvelum; skal ek þat annast, at þar sè á móðir mín ok systir, Rogerus ok Roðgeir; skulum vit þá halda til Vallands. En ef þú náir gripunum, skaltu varast, at líta aptr, en þingit skaltu stefnt hafa á þriggja nátta fresti". Eptir þetta skiljast þeir við þær með mikilli blíðu; ok þá þeir koma fram úr stofunni, gekk jarl í annan enda jarðhússins. Jón hleypti úr jarðhússþilinu lausafjölum tveimr, ok gengu þar í skot eitt, ok lètu aptr í fjalirnar. Jarl mælti: „Hvat skall innar í dimmuna". Rogerus mælti: „Þær skelldu hurðinni". Gengu þá hvorir sinn veg. Skildu þeir Jón ok Eiríkr með svo fallinni ráðagörð.

18. Um daginn eptir dagdrykkju kom Eiríkr at máli við jarl: „Þat er yðr kunnugt, at þèr hafit veitt oss hèr í vetr stórmannliga; nú vil ek biðja yðr, at þèr látið blása til þings borgarliði á völlu þá, sem út eru af borginni, á þingstað yðvarn, at þar megi sjást gjafir þær, sem ek vil yðr gefa“. Jarl sagði hann sýna metnað sinn í þvílíkum hlutum, ok fór mjök undan; en þó með fortölum Eiríks var öllu liðinu út blásit af borginni; fylgdi þar jarl sjálfr, á þá völlu, sem voru ofan undan fjallinu Aspíde. Út af völlunum var kaupstaðrinn, sem fjallit var við kennt, ok sótti þaðan margt manna. Svo voru háttaðir vellirnir, at hátt var at hvoru megin, ok sitt vatn hvoru megin vallanna, en sjárinn fyrir framan. Þar flaut fyrir landi skip þat, sem Jón hafði búit; lá þar á landi ein bryggja. Þar gengu á menn Eiríks allir. Nú gengr Eiríkr fyrir jarl með marga ágæta gripi ok hringinn Gáinn. Ok er Roðbert sá hringinn, leggr hann af sèr hjálminn ok sverðit niðr á völlinn, ok hugði, at Eiríkr mundi gefa honum hringinn, ok varð hann mjök lèttbrýnn við þá sýn; var þá siðr ríkra manna, at leggja af sèr vopn sín, er þeir þágu gjafir af göfugum mönnum. Eiríkr tekr hjálminn, ok setr á höfuð sèr, en hringnum Gáinn rennir hann upp undir alboga; upp tekr hann sverðit Sigrvandil ok bregðr því, ok eru flestir eigi fúsir fyrir honum at verða; tekr nú til ferðar, ok hleypr mann af manni; viku sèr flestir undan, því ekki þótti gott

fyrir honum at verða. Roðbert kallar hárri röddu, ok bað menn taka hann. Spruttu menn þá upp; skorti þá hvortki gný nè vopnabrak, hark ok háreysti; en með því at hirð jarls, riddarar ok ríkismenn sátu næst honum, varð Eiríkr þeim eigi fyrir höndum, því at hann var þá kominn út yfir hit mesta mannvalit, en þrælar ok þorparar voru eigi áræðisgóðir; fylgdi ok sú náttúra hjálminum Œgi, at mönnum fèllust allar hendr, þá menn sá í andlit honum. Ok sem honum var[1] sem flest á höndum, ok náliga allt lið jarls sótti at honum, þá heyrðu menn brest í fjallit, ok heldr mikillegan; því næst sá þeir eina torfu stóra fram fljóta úr fjallinu; þar fylgdi með þil, af timbrstokkum gört, ok greypt hvorr í annan, ok felld á dyragætti, ok læst aptr með járnslám stórum. Þetta var gört með svo mikilli list, at margar smáar ár voru stífldar uppi, svo mátulega var fullt fjallit. Þat höfðu menn undrazt um vetrinn, at árnar þurru. Með þessum umbúningi fylgdu margir stórviðir, er verit höfðu með til styrktar við þilit. Með þessum hinum mikla gný ok vatnagangi úr fjallinu fylgdi svo mikill dreki eðr skip, at menn sá eigi fyrr þess líka. Þat var allt steint fyrir ofan sjá; drekahöfuð voru öll gyllt á skipinu. Þat lèk á hvelum, ok fór svo rètt og úhallt, at þat stefndi rèttan veg á sjá út. Maðr hèlt þar á hverju reipi, ok studdi skipit, svo eigi skyldi hallast. Rennr nú skipit með því stríða straum-

[1]) þannig B; varð A.

falli svo hart, sem fugl flygi. Þetta skip hafði Jón smíðat um vetrinn, ok með honum 12 smiðir; hann hafði áðr látið göra viðarflaka, ok smíðat þar á skipit, svo víðan, sem tók í fjallit báðu megin; hann görði ok svo dyrr á fjallinu ok umbúning duranna, at hann veitti áðr úr fjallinu stórum ám þeim megin, sem borgin stóð undir. Þar voru byggðir litlar, ok þótti honum, sem þar mundi síðr grunum í rennt. Við þessa vatnaveitu þurru svo vötnin í fjallinu, at víða voru uppi hæðir ok hamrar í fjallinu, svo at fara mátti á þurrum fótum it efra, en á skipum it neðra. Viðarljós voru þar nætr ok daga, svo at hvergi bar skugga á. En þá hálfr mánuðr var til þess, at hann hugði út at leggja skipinu, þá stemmdi hann vatnsæðar allar, þær er úr fjallinu spruttu; flosnaði þá upp drekinn, svo at jafnhátt bar drekahöfuðin dyragættunum á þann dag, sem þingit var sett. Svo var þetta ráð vitrlega stofnat, at þann veg mátti þverra sem auka vötnin, því at sumar upprásir vatnanna voru ofar, en sumar, ok mátti þeim því af veita smámsaman. Varla þykir vitrlegra ráð verit hafa eðr meira þrekvirki unnit í því landi.

19. Nú er þar til at taka, at Roðbert jarl ok menn hans sjá þessi hin miklu undr, at þeir verða hræddir ok felmtsfullir, ok vildi hverr gjarna leita sèr lífs; en þat var þó eigi hógligt, því at vötn voru tveim megin, en voðablár sjár fyrir framan. En Eiríkr hleypr, sem hann má mest, ok leit aldrigi

aptr, þar til hann komst á skip sitt; naut hann þess, at hann var manna fóthvatastr ok snarastr í öllu. Settu þeir þá til segls, því at byrr var blásandi af landi; var þat allt jafnsnimma, at landsfólkit stè á bryggjusporðana, ok hinir kipptu at sèr, ok „sá þá refr rakka, en rakki hafði alls ekki“. Þat er nú at segja, at jarl er uppi á völlunum með riddaralið sitt ok landsmenn; þar voru ok þá með honum blámenn ok margt annat illþýði, ok allt þat fólk, er eigi hafði fallit með Svipdagi jarli ok eptir lifðu. Saknaði jarl þá margra manna, er áðr höfðu þjónat Svipdag jarli. Sèr hann nú alla þessa ráðagörð; en við þessi undr, sem lýðrinn sá, at hina stóru viðu ok it mikla skip rekr ofan með þeim stríðu straumum, at engum var þeim lífs at vænta, er fyrir varð, þá hlaupa sumir á vötnin, ok allr þorri lýðsins verðr fyrir þeim enum stóru viðum ok hinum mikla dreka; drukknaði þar hvert mannsbarn, nema þeir einir, er áræði höfðu til, at kasta sèr á vötnin. Kemst þessi hinn mikli dreki með öllu heilu ok höldnu á sjá út með svo miklum skrið, at hann er skjótt hvarfjærri landi; er þar á kominn Jón Svipdagsson með 80 manna; þar var ok Rogerus ok Roðgeir, er verit höfðu þjónustumenn Roðberts jarls, því at hann hugði, at hann mundi með því móti geta tryggt þá; því at þeir höfðu hina mestu virðingu af Svipdag jarli. Jón hafði ok með sèr Líkordí, móður móður hans, en dóttur Philippí konungs af Flæmingjalandi. Þat hafði til borit einn

tíma um vetrinn, at Eiríkr gekk fyrir lopt eitt, at hann hafði sèt konu eina gamla ok hrumaða mjök; hún var bökuð við eld, sem þar var siðr við gamla menn at göra; hún var hvít fyrir hærum. Ok þá Eiríkr sá Elínborg ok Marsilíu dóttur hennar, þá hafði Jón spurt hann at, hvort hann hefði sèt nokkra konu þeim líka; en hann sagði, með hverjum hætti þat varð. Hann sagði hana heita Líkordem, ok væri móðir móður sinnar Elínborgar. Af slíkum hlutum má marka, hvat vitr maðr ok glöggþekkinn Eiríkr hefir verit. Fjöldi annarra ríkismanna fylgdi þeim, þó hèr sè eigi nefndir; hafði ok Jón margra ríkra manna sonu ok þeirra trúnað, þó at þeir sjálfir fœri eigi með honum.

20. Nú er þar til at taka, at Roðbert ok margt annat fólk flœðir uppi; þat var ok margt, at á sjá út rak, ok drukknaði fjöldi manna, en jarl tók til sunds, ok þeir menn, sem bezt voru fœrir, ok lögðust til lands. Jarl bjargaði fjölda manna, ok lofa þeir allir hans frœknleik. Ok er þeir voru á land komnir, er lífvænir þóttu, leituðu þeir heim til borgar. Dreif þá í móti þeim margt fólk, þat sem sèt hafði þessi undr. Bað jarl, at menn skyldi þá skunda til skipa ok halda eptir þeim; flýtir þá hverr sem má at skipastóli þeim, sem jarl hafði í víkingu haft. Dreif þá svo margt lið at þeim, at jarl hafði 10 skip. Settu síðan til segls, ok rèru undir; en sem þeir voru komnir skammt undan landi, þá fundu þeir eigi fyrr, en skipin fyllti af sjó

undir þeim. Þeir vildu þá fella seglin, en þeim var þat úhœgt, því stormrinn var mikill; því bar þá langt á sjá út. Jarl var þá svo óðr ok œfr, at hann bað þá einart eptir halda, ok varð svo, at öll fyllti skipin, áðr þeir hjuggu höfuðbendurnar ok hleyptu ofan seglunum; en af því hvelfdi sumum skipunum, at seglin snöruðust út á borðin, en þau, sem þat stóðust, fórust af því, at þau urðu eigi ausin fyrir sjó, ok stórviðri var svo mikit af landi, at hvergi gekk aptr í móti veðrinu. Týndust þar þau 10 skip, svo at ekki mannsbarn komst lífs á land, utan Roðbert jarl. Hann kafaði undir hvern boða, ok lagðist svo til lands. Margir menn voru á landi fyrir, ok lofuðu frœkleik hans, at hann komst lífs úr þeim háska. Jarl undi illa við sinn hag, hafði látið fjölda manns, en sjálfr mjök máttfarinn; voru ok skip þeirra Jóns ok Eiríks komin úr augsýn. Roðbert jarl gekk nú heim í borg, ok bað menn eta ok drekka, en bað alla koma til sín um morguninn í borgina; var ok svo gört. En með því at fólkinu leizt jarl reiðugligr, þóttust þeir eigi vita, hvar hann lèti niðr koma, þá varð þeim eigi skjótt komit til fundar við jarlinn. Hann lætr þá blása til samans liði í borginni, ok bað góða menn leggja til heil ráð með sèr, úr því sem þá var at ráða; „en þat hefi ek hugsat, at láta blása til þings öllu liðinu í kaupstaðnum Aspíde, því at þèr eigit bæði eptir frændr, vini ok vandamenn allir at sjá“; þar með, at þat væri mestr styrkr

borgarmanna, sem höfuðstaðrinn var, ok þeim mundi minnisstœðr mannskaðinn, er síðast höfðu fengit. Var þetta nú staðfest, at í kaupstaðnum skyldi þingit sett.

21. Roðbert lætr nú blása til þings í kaupstaðnum, ok hefir nú mjök fjölmennt. Þangat lèt hann til bjóða mörgu fólki, er nærri var, ok fara átti yfir þau stóru vötn, sem úr fjallinu fèllu, ok var þat lengi dags, at allr hans lýðr komst hvergi, því at skip voru öll meidd, þau er í borginni voru. Fengu sumir sèr smábáta eðr flota, ok fluttust þar á, ok rèru á bátskipunum fyrir framan straumana um sundin. Gaf Roðbert þetta ráð til, ok dvaldi þat mjök fyrir þeim. Mjök var áliðinn dagrinn, þá þingit var sett, en þat var þó mjök fjölmennt, því at sumir áttu at sjá eptir frændum, en sumir eptir vinum; en þeir menn, sem Jón hafði fest í trúnaði við sik, var bannat af honum, at sœkja til þinganna, ok fengu þeir því engan mannskaða, en hinir mestan, borgar-menn ok bœjar, þeir sem eigi voru varaðir við. Nú stendr upp Roðbert, ok mælti: „Þat er öllum mönnum kunnugt, hvern mannskaða, fjárskaða ok penningatjón vèr höfum fengit af þeim illa svikara, er Eiríkr nefndist, ok þeim fleirum, sem í brögðum hafa verit með honum; er yðr eigi úkunnigt, hversu ek setta á stofn við hann, ok hversu hann sveik mik, ok sagðist vilja gefa mèr gjafir, ok fór þar um mörgum fögrum orðum ok sviksamlig-

um, sem síðar bar raun á, at hann tók frá mèr þá tvo gripi, at engir munu slíkir bornir; annarr var hjálmrinn Œgir, en annarr var sverðit Sigrvandill; þat nemr hvergi í höggi staðar, ok sá maðr á jafnan sigri at hrósa, sem þat berr, en hjálmsins náttúrur má ek yðr eigi segja allar. Hann hafði ok meðferðar þann grip, er stolinn var frá mèr fyrir 10 vetrum, hringinn Gamm, ok má þeim manni ekki á úvart koma, er hann hefir á sèr. Þá hleypti hann ofan úr fjallinu á oss vötnum, ok því skipi, er á var Marsilía hin væna, ok sá ek hana glöggt, þar hún sat í tjaldaðri lyptíngu, ok Elínborg móðir hennar; þar kennda ek þann mann, er ek hugða löngu dauðan; hefir hann ok valdit öllum svikræðum þessum, ok ráð til gefit. Var yðr þat eigi úkunnugt, at þeir drekktu öllu því fólki, er þar var saman komit, svo at fáir menn komust undan með mèr; en þá er vèr komum á land, tókum vèr oss 10 skip, ok hèldum eptir þeim, ok geymdum eigi at fyrir mikilli reiði, ok drukknaði þar hvert mannsbarn, en ek komst einn á land. Bíðr ok aldri þat skip í borginni, at sjófœrt sè. Saknaða ek vinar í stað, er í burt var Marsilía hin væna ok hin kurteisa, en látið frœndr ok vini ok öróf fjár; mun ek aldrigi gleðjast, fyrr en ek nái henni aptr. Nú þó ek hafi mest látið, þá hafi þèr þó nokkut látið, frændr ok vini, konur ok börn, ok alls konar gripi; mun yðr seint úr minni ganga sá hinn hörmuligi skilnaðr; eðr hvar man meira níðingsverk

gört hafa verit á þessu landi? En nú vil ek biðja alla borgarmenn ok bœjarmenn ok allan landslýð, með því vèr erum fyrir einum vandræðum orðnir, þá biðr ek yðr alla samt, at þèr veitið mèr traust ok styrk til, at hefna þessarrar smánar ok mannskaða, sem oss hefir görðr verit; vil ek þess biðja yðr alla saman, at þèr ráðit mèr heilt um þetta mál, en ek mun görast höfðingi yðvarr. Væri þat mitt ráð, at herja þegar til Vallands, ok brenna allt ok bræla, því at lífit skal ek á leggja, at þessa verði hefnt". Allir menn tóku vel máli hans; sögðu þat vera nauðsyn, at hefna harma sinna ok alls landsins spellvirkis, sem þeim hafði görts verit, en sögðu, at ekki herskip var þar fœrt í bœnum, ok öll önnur, er þeir vissu, utan kuggar ok kaupmannaför, þau sem eigi væri í stríð hafandi. Mátti þat finna á orðum bœjarmanna, at þeir töldu hina mestu torveldi á, at herja þat sumar, ok þótti þat hin mesta úhœfa. Þá stóð upp bóndamúgrinn ok allt annat fólk, ok afsögðu leiðangr úti at hafa þat sumar; sögðu, at þessi hefnd hefði makliga fram komit, hefði eigi fleiri goldit. Þóttust þá allir vita, at Jón var á lífi, ok hann hefði þessu verki valdit; minntust þeir þá á, hvern góðvilja at Svipdagr jarl hafði þeim sýnt; sögðu ok, at hann átti engrar liðveizlu von þat sumar. At þessu ráði hurfu ok margir borgarmenn. Var lýðrinn miklu ákafari, at veita Roðbert jarli engan hlut til liðveizlu þat sumar. Nú sèr jarl, at

landslýðrinn er frá honum horfinn; á hann því tal við vini sína, hvat hann skal upp taka. Kemr þat ásamt með þeim, at hann skal hafa úti leiðangr annat sumar, ok treysta sèr vini um allt landit með fègjöfum. Sèr ok jarl, at þeir muni eigi hollir honum í öðrum löndum, ef hann ferr með lítið lið, ef þeir synja honum liðveizlu í sjálfs hans ríki. Slíta með því þinginu, at förin er ráðin at öðru sumri. Þá voru svo fram fallin vötnin úr fjallinu, at ríða mátti yfir. Látum nú Roðbert jarl sitja við sína ráðagörð.

22. Nú er at segja frá þeim Eiríki ok Jóni, at þeim byrjaði vel; komu þeir skipum sínum við Valland, ok lendu í konungsskipalægi. Var þar engu tjaldat, nema pelli, en silki í seglum; var þeirra ferð allskrautlig, því at veðr var glatt, ok skein sólin á drekahöfuðin; þau voru öll gyllt, en steind skipin fyrir ofan sjá, þar sem bœta þótti. Lyptingin var tjölduð á drekanum með hvítu pelli. Nú er sagt Vilhjálmi konungi, at Eiríkr son hans sè við land kominn. Lèt hann þegar blása út öllum lýð af borginni móti honum. Varð þar mikill fagnafundr, ok bauð konungr þeim heim til virðuligrar veizlu, ok svo lengi með sèr at vera, sem þeir vildi, með liði sínu öllu; ok þat þágu þeir. Konungr sjálfr ok Elínborg drottning hans gengu út í móti Marsilíu ok móður hennar; allir menn undruðust fegrð hennar ok vænleika ok frábæra kurteisi, því engi þóttist hennar maka sèt hafa. Setti

konungr þær í hásæti hjá sèr, ok skorti þar egi fríða veizlu ok margs konar skemmtan. Hóf Eiríkr þá upp bónorð ok bað Marsilíu sèr til handa. Jón svaraði því máli vel ok móðir hans; sögðu þat vera makligt, með því hann hefði sitt líf út lagt í hættu fyrir þeirra nauðsyn. Var þat at ráðum gört, at Marsilía giptist Eiríki með þeim skilmála, at Eiríkr skyldi herja til föðurleifðar Jóns með honum, ok fá honum lið til, ok skiljast eigi fyrr við, en Roðbert væri drepinn. Er nú búin veizla; skyldi til hennar ekki spara ok engi úboðinn koma. Skorti hèr eigi hit bezta mannval, er Eiríkr bauð til um allt landit, jörlum ok ríkismönnum öllum, er mest þótti sœmd í. Jón hafði ok margt manna, sem mesta virðing höfðu haft hjá föður hans í Hólmgarðaríki, ok skorti þar eigi góð tilföng. En þá er gestir sátu þar í góðum fagnaði, lèt Jón taka einn stól, ok settist þar á sjálfr, ok sagði alla sögu frá því, er jarlinn Roðbert felldi föður hans frá ríki, ok hversu hann vildi honum fyrir koma, ok hvat honum lagðist til hjálpar, ok hverja vík hann hafði á honum róit. Lèt hann fram bera sverðit, hjálminn ok hringinn, ok sagði, með hverri náttúru þat væri, ok hœldu því allir. Lofuðu menn nú mjök þessa veizlu, ok auðnu þá, er þeir komust úr þeim vandræðum. At þessari veizlu gaf Jón Roðgeir ok Rogeró ok öllum ríkismönnum eignir þær allar, er Roðbert jarl hafði af þeim tekit, ef hann yrði einvaldshöfðingi yfir landinu. Öllum

mönnum gáfu þeir Eiríkr góðar gjafir, ok hètu þeir honum sínum styrk. Stóð brullaupit hálfan mánuð, ok þóttist engi sèt hafa þvílíka veizlu. Þóttu nú engir menn jafnfrægir, sem þeir fóstbræðr.

23. Sumarit líðr nú af hendi ok vetrinn með, ok koma vordagar. Jón kemr at máli við Eirík ok spurði, hvort hann vildi eigi efna þat, sem hann hefði heitið; „því at mèr þykir þú fátt hugsa, nema klappa um konur með gleði ok gamni“. Eiríkr sagði fljóta fyrir landi 60 skipa albúin, en sagðist hafa ætlat til önnur 60 úr leiðangri. Jón þakkaði honum þessa liðveizlu, ok sagði þat mundu duga, ef þeir hefði 60 skipa; sagði, at landsfólkit mundi flestallt undir hann snúast. Eiríkr þóttist frètt hafa, at Roðbert jarl vildi leiðangr úti hafa; sagðist meira vilja eiga undir sèr, en landslýðnum. Þeir höfðu 100 skipa; þar var í ferð með þeim Marsilía hin væna, ok allir þeir menn, sem Jóni höfðu fylgt úr Hólmgarði, en Vilhjálmr konungr sat eptir ok drottning, ok skildu við Jón með miklum kærleikum. Nú er frá því at segja, at Roðbert lætr grafa díki ok grafir í kring um borgina Kastellam, svo stórt, at ekki mátti yfir komast, ok veita þar í vötnum; hann lèt ok bœta borgarmúrinn, þar sem brotinn var; síðan lèt hann læsa hvert borgarhlið með járnhurðum. Svo hafði hann veita látið vatni í borgina, at hana mátti hvortki vinna með eldi nè vopnum. Hann lèt ok göra einn hinn sterkasta turn af múrgrjóti hinu harðasta; hann var svo hár,

at af honum mátti sjá yfir allt landit ok langt á sjá út, ef úfriðr fœri at. Þenna turn hafði Roðbert jarl göra látið, at ef svo kynni at verða, at borgin væri unnin, skyldi hann úr turninum verjast. Svo var þessi turn görðr með miklum hagleik, at engi maðr sá ráð, hvernig hann mætti vinnast. Svo segja menn, at steinmúrinn hafi verit 60 faðma hár, en 80 faðma á hvern veginn, 10 faðma þykkr. Upp af steinmúrnum var görr glœsiligr turn ok með skyggðum glergluggum, glœstr víða með gulli ok silfri, þar sem bœta þótti, skorinn ok skrifaðr utan ok innan með ágætum meistaradómi. Upp af turninum var einn veðrviti, ok fest við flug af gullofnu pelli, í þá mynd sem merki. Turninn var kringlóttr innan, ok snúinn upp pöllum sem kufungr, ok átti þar upp at ganga. Þar svaf Roðbert jarl í hverja nátt með 100 manna. Hann hafði látið til þessar smíðar taka þegar um vorit, er þeir Jón ok Eiríkr voru í burtu, ok látið at vera sumarit ok vetrinn, til þess þar var komit. Því görði hann svo, at hann vildi ekki eiga undir landsmönnum, því at honum sýndust þeir útrúligir, ef Jón kœmi til. Þá voru 3 nætr til þess, at allr herr Roðberts jarls skyldi kominn í Kastellamborg, sá sem til leiðangrs var ætlaðr. Var þat lið betr viljað Jóni Svipdagssyni, en Roðbert jarli.

24. Nú er frá þeim Eiríki ok Jóni at segja, at þeim gefr vel byri, ok ferr engi njósn fyrir þeim. Sigla þeir nú at Hólmgarði um nátt eina, þrim nátt-

um fyrr en lið Roðberts jarls skyldi komit í borgina Kastellam. Þá bauð Jón Eiríki, hvort hann vildi heldr setjast um borgina, ok hætta á, hvort Roðbert jarl berðist við þá, eðr vildi hann leggja undir sik kaupstaðinn, svo at jarl ætti þar einkis styrks von; „því at fólkit mun oss útryggt, er áðr hefir fengit af oss mannskaðann“. Eiríkr kýss, at setjast um borgina, „ok lízt mèr, sem vèr munim eigi of liðmargir, ef jarl vill berjast. Skipta þeir nú liði. Hleypti Jón með sína sveit inn í kaupbœinn. Bœjarmenn höfðu skipazt í fylkingar ok vopnazt, ok varð þar viðnám nokkut. En með því Jón hafði frítt lið ok mikit, hallaði skjótt á bœjarmennina. Jón gekk vel fram, ok hjó til beggja handa, svo allt hrökk undan. Kom svo, at allir gengu á hönd Jóni, ok veittu honum tryggðir. Þat er sagt, at Roðbert hafi gengit þessa nátt til salernis. Hann hafði sèt út um glugga einn, at skipaflotinn var kominn at landi, ok mikinn her fara at borginni, ok bardagann í kaupbœnum. Hann bað þá vekja upp borgarlýðinn, ok bað alla menn vopna sik, „ok er oss eigi ofrefli at eiga við flokk þenna, sem hèr er kominn; berjumst[1] djarfliga, látum um[2] skipta, áðr kaupstaðrinn verðr unninn, ok verða svo þeim at liði“. Ok ríðr nú jarlinn Roðbert út af borginni með öllu liði sínu.

25. Eiríkr sèr nú, at jarl vill berjast; fylkir hann þegar sínu liði; lýstr þar nú í harðan bar-

[1]) búumst, A. [2]) oss, A.

daga. Hafði Roðbert jarl lið meira, ok sjálfr gekk hann vel fram; eggjar hann nú lið sitt. Eiríkr barðist ok einkarvel ok djarfliga, ok hjó til beggja handa, sýnandi góða framgöngu; en svo lauk, at fylking jarls hrökk aptr undir borgarvegginn. Sèr Roðbert jarl nú, hvar Jón ríðr einnig með mikit lið, ok þekkir hann görla. Hann hafði á höfði hjálminn Œgi, ok í hendi sverðit Sigrvandil, ok þykist nú vita, at kaupstaðrinn muni unninn; kallar nú hárri röddu, at menn flýi í borgina ok forði lífi sínu. Lauk svo, at hann komst í borgina með illan leik með liði sínu; voru þá aptr læst borgarhliðin. Svo hafði Eiríkr sýnt harða atsókn, at sumt borgarliðit hafði hopat í díkin undan, þau sem um borgina voru grafin, ok drukknat þar í. Láta þeir nú reisa herbúðir sínar umhverfis borgina á slèttum völlum. Þeir sœkja at borginni 3 daga, ok verðr ekki at gört; sèr ok engi maðr ráð til, at vinna borgina, hvortki með valslöngum nè öðrum vígvèlum. Jón leitar þá ráða við liðit um, hvernig vinna skal borgina, en engi kunni ráð til at leggja. Jón mælir þá: „Þat er mitt ráð, at hverr maðr taki sèr viðarbyrði úr skógi, því at þetta man borgarliðit eigi gruna, ok beri til herbúða; þetta skal göra helmingr liðsins, en annarr partrinn skal sœkja at borginni; munu þeir þetta hyggja vera eldivið vorn. Er nú eigi meirr en 3 nætr til þess, er Roðbert jarl hefir stefnt hingat öllum landsins lýð, ok verðum vèr þá ofr-

liði bornir“. Líðr nú dagrinn ok kemr kveld; var þá haldit upp friðskildi. En sem menn Jóns höfðu etið ok drukkit, bað Eiríkr þá herklæðast; er þeir hugðu borgarfólkit sofnat, þá lètu þeir taka viðarbyrðarnar ok bera í díkin; gekk þar herrinn yfir þessar brúr. Jón kemst nú at borgarhliði, ok höggr frá lásana með sverðinu Sigrvandli. Meðan hann görði þetta, lèt Eiríkr hleypa niðr trèbrúnum, þeim er yfir díkin voru görvar; gekk þar þá herrinn yfir. Þessar brúr voru á um daga, þá menn þurftu at viða eðr flytja aðra hluti at borginni, en undnar af á kveldum, ok mátti þá ekki kvikindi at borginni komast. Hugðu borgarmenn, at þeim mundi duga eins ok hinar fyrri nætrnar, ok gengu þá flestir til hvíldar, þeir sem settir voru til varðhalds. Vöknuðu menn eigi við góðan draum, at Jón er þar kominn með herinn allan. Skipar hann Rogerum ok Roðgeir fyrir herinn, ef borgarmenn brynjuðust, en þeir Eiríkr gengu með 1000 manna at þeim herbergjum, sem Roðbert jarl hafði sofit í, fyrir því at Jón hafði fengit kunnuga menn, sem fyrir litlu höfðu verit með jarli í borginni, ok kunnug voru öll fylgsni jarls ok skipun húsa. Þeir fundu þar einn niðrgang, ok fóru eptir honum, til þess er þeir komu í turninn, ok fóru hljóðliga. Turninn var snúinn pöllum innan, ok gengu þeir þar til, er þeir komu at einu trèræfri; þar var felld í ein hurð, læst mjök sterkliga. Jón braut upp hurðina, ok var þat svefnskemma Roðberts jarls ok hirð-

manna. Jón bað handtaka þá alla. Hann gekk sjálfr upp eptir turninum, ok í ofanverðan, ok um öll herbergi, ok fann ekki. Þeir gengu þá at einu húsi; þar var fyrir hurð af járni ok felld í marmaravegginn, ok læst svo aptr. Jón höggr upp lásana, en brýtr lokurnar, stökkr þá upp hurðin. Þat hús var altjaldat með gullsaumuðum vefjum[1]. Þar hvíldi jarl ok tveir sveinar hjá honum. Roðbert heyrði brestinn, er Jón hjó frá lásinn, ok vaknaði af svefni ok tók til vopna sinna. Í því gengu þeir Jón inn í húsit. Tóku þeir þar Roðbert jarl höndum, því hann fèkk engi undanbrögð haft, því at hann hugsaði, at þangat mundi engi úfriðarmaðr komast mega. Sýndi hann þó áðr ágæta vörn, en hann fengist handtekinn, en kom at því, sem mælt er, at „engi má við margnum“.

26. Nú ganga þeir Eiríkr ok Jón ofan úr turninum, ok hafði með sèr jarl bundinn, ok marga menn aðra. Komu út í borgina, ok var þar margt lið fyrir af borgarmönnum, því at þeir Roðgeir ok Rogerus höfðu komit á stefnulagi við lýðinn. En sem þeir sjá Jón undir þeim ágæta hjálmi Œgi, vöxt hans ok vænleik, ok allt hans fólk honum þjónanda, en Roðbert bundinn ok yfirkominn makliga fyrir sín svik, þá lagði allr borgarlýðr[2] sitt mál á vald Jóns, ok voru margir til þess allfúsir, er áðr höfðu þjónat föður hans, ok þótti þetta mikit einnar nætr verk, er Jón hafði unnit. Eptir um

[1]) þannig A; hin reflum. [2]) lýðr bætt inn í eptir B.

morguninn lèt hann stefna þing mjök fjölmennt, ok rœðir þá um við vini sína, hvern dauðdaga Roðbert skyldi hafa, en um þat urðu menn eigi ásáttir. Jón mælti þá: „Þat er makligt, at Roðbert fái þann dauðdaga, er hann valdi þeim Hringi ok Eilífi, fyrir þat þeir tóku mik eigi af lífi". Lètu þeir þá göra tvo elda, ok setja Roðbert þar í milli bundinn, ok lauk þar hans lífdögum. Sögðu margir honum þann dauða makligan fyrir sín svik, ok er þat mál manna, at eigi hafi verit þvílíkr svikari, sem Roðbert. Gengu nú allir á hönd Jóni um allt landit, ok svo þat lið, sem til herferðar var ætlat með Roðbert. Urðu allir Jóni fegnir, ok þóttust menn hann úr helju heimt hafa úr[1] svo mörgum þrautum ok lífsháska, sem hann hafði í komit, ok svo mörgum mannraunum, sem yfir hann hafði drifit; unna honum margir hugástum, ok einkum þeir menn, sem þjónat höfðu föður hans. Ok er hann þóttist fullkominn í ró, sendir hann aptr allt liðit, sem Eiríkr átti, nema fimm skip, ok gefr öllum höfðingjum stórar gjafir fyrir liðveizlu við hann. Varð hann af slíkum hlutum harðla vinsæll, ok báðu honum allir góðs. Einn tíma kemr Jón at máli við Eirík, ok sagðist vilja fara út yfir haf til Grikklands, ok efna heit sín, ok sœkja helga staði. Eiríkr sagði þat gott ráð. Lètu nú búa ferð sína allskrautliga at skipum ok vopnum, en þeir Roðgeir ok Rogerus skyldu hafa landvörn á meðan. Halda þeir nú fyrst til

[1]) úr bætt inn í eptir B, C.

Miklagarðs, því at þeim þótti þangat rausn mest at sœkja. Þá var konungr Konráðr, son Ríkarðs keisara. Tók þá konungr við þeim með allri blíðu ok kærleikum, ok leiddi þá út með ágætum gjöfum, því at keisarinn faðir hans hafði skrifat til hans, at hann skyldi eigi kunna þá um dráp Roðberts jarls, þvílík nauðsyn, sem þá dró til at hefna sinna harma á honum.

27. Nú sigla þeir Jón ok Eiríkr til Saxlands, ok stýrði Jón dreka þeim, sem hann hafði smíðat í fjallinu, en Eiríkr þeim dreka, sem hann hafði látið göra, ok var hin mesta gersimi. Með þeim var í ferð Marsilía hin væna, ok var þeirra ferð allskrautlig. Komu þeir þar til lands, sem þeir mundu kjósa, Konráðr var þá ok kominn til Saxlands, at láta kóróna son sinn Vilhjálm til keisara yfir Saxlandi. Ok sem þeir feðgar vissu, at skipin voru landföst, þykjast þeir vita, at nokkurir ríkismenn ok nafnkunnigir eru við land komnir, ok gengu í móti þeim með friði ok fagnaði, bjóðandi af nýju heim til virðuligrar veizlu; ok þar sátu þeir Jón, þar til at keisaravígslan fór fram. Tóku nú Jón, Eiríkr ok Marsilía skírn ok helga trú með öllu þeirra liði, ok lofuðu allir menn auðnu þeirra: kenndust þá ok við þá Jón ok Eirík, at þeir voru af hinum dýrustum ættum. Ok eptir veizluna gengu þeir til konunganna, þakkandi þeim með mörgum fögrum orðum sinn herradóm, ok sagðist Eiríkr ætla heim at sœkja Hlöðvi konung, móðurföður sinn, en

Konráðr konungr ok Vilhjálmr keisari son hans gáfu þeim blítt orlof, þar með ágætar gjafir ok vináttu sína. Síðan sigldu þeir til Frakklands, ok fundu Hlöðvi konung; fagnar hann vel Eiríki frænda sínum með allri makt ok virðingu, ok öllum þeim; virðast þeir konungi, sem öllum öðrum mönnum, hit mesta afbragð annarra manna fyrir afls sakir, vizku, vænleiks ok allrar atgörvi. Jafnan lèt Hlöðvir konungr hafa burtreiðir, skot ok sund ok aðrar íþróttir. Reyndist Eiríkr jafnan hinum mestu riddurum jafn ok framar í öllum íþróttum, en Jón má við engan þreyta sakir afls ok karlmennsku; vann hann því langt yfir alla sèrhverjar íþróttir, skot, sund, turníment, ok allar listir aðrar, sem þar var vant at fremja.

28. Nú er þat eigi sagt, hversu lengi þeir fóstbrœðr voru í Frakklandi, en hins er getið, at með vegligum gjöfum voru þeir út leystir ok allri rausn. Þaðan sigldu þeir til Flandren; var þeim þar fagnat forkunnar-vel. Varð Jón þess víss, at dauðr var Philippus konungr, móðurfaðir hans, en son hans hafði tekit konungdóminn; en þessi hinn ungi konungr hafði eigi frètt til Jóns af Hólmgarðaríki lengi. Ok sem Jón sagði honum æfisögu sína, ok hvar þá var komit, varð af nýju fagnafundr með þeim, ok þótti honum Jón hafa mikla gæfu til borit, at hann skyldi úr hafa komizt svo miklum ok mörgum nauðum, sem hann hafði í komit. Voru þeir þar um vetrinn með hinum mesta fagnaði. Ok sem sumar-

it kom, báðu þeir heimfarar, ok leysti konungr þá í burtu með mörgum góðum gjöfum ok stórum metorðum, ok skiljast hinir mestu vinir með frændsemi. Setja þeir nú til segls, Eiríkr ok Jón, ok er eigi af sagt ferðum þeirra, fyrr en þeir komu í Hólmgarðaríki. Menn sá nú úr borginni sigling þeirra, fyrr en þeir komu at læginu. Þeir höfðu engu tjaldat nema pelli ok silki ok guðvef, en drekarnir allir steindir fyrir ofan sjá, þar sem bœta þótti. Ok sem landslýðrinn vissi komu þeirra fóstbrœðra, renna þeir fagnandi í móti þeim með öllum prís ok heiðri, sem föng voru á. Ok sem Jón hafði eigi lengi heima verit, sendir hann boð um allt sitt ríki, at til fundar við hann skuli koma hverr sá maðr, sem hestfœrr ok ölfœrr[1] er, innan mánaðar; hèr með sendir hann Rogerum ok Roðgeir til höfuðkonungsins í Hólmgarði, at biðja dóttur hans til handa Jóni. Líðr nú þat er lengra er en þessi mánuðr, er þingit var stefnt; ok er sá dagr kemr, er á kveðit var, kemr svo mikill múgr ok margmenni ok sœkir til borgarinnar Kastellam, sem í skóg sæi, ok í þenna sama tíma komu aptr sendimenn Jóns með þeim erindum, at þeir fóstbrœðr skyldi sœkja brullaup Jóns með öllu sínu stórmenni til höfuðborgar. Ok eptir þessa frètt fara þeir til

---

[1]) aulfœrr, B, sem þó annars ekki hefur au fyrir ö; ólfœrr, A, sem er auðsjáanlega rangt. Sem fremri partur af samsettum orðum er öl- opt = al-; samanber ölúð = alúð, o. fl.

þingsins, ok var þar Jón til höfðingja tekinn yfir allt þat ríki, er faðir hans hafði stjórnat. Sem þat var gört, bauð Jón öllum herrum ok höfðingjum ok stjórnarmönnum ríkisins ok út af allri alþýðu kristin lög at halda ok guðs trú at fága, ok með atgangi þeirra fóstbræðra játuðu allir sik undir þann sið ok setning þeirra laga, sem Jón vildi skipat hafa, ok var með því slitið þinginu.

29. Síðan kallar Jón til sín af nýju allt virðingafólk ríkisins, ok lýsir því þá yfir, at hann vill af nýju sœkja brullaup sitt, bjóðandi með sèr öllu stórmenni. Búa þeir þá ferð sína með 500 manna, allt vel búit at vopnum ok klæðum ok hestum. Lètta þeir eigi ferð sinni, fyrr en þeir koma í Hólmgarðaríki. Er í móti þeim gengit með öllum prís ok fagnaði, þeim sem veröldin kann af sèr at veita; fyrst eru þeir af höfuðkonunginum laðaðir ok leiddir til þeirrar ágætustu hallar, er í var borginni, ok brazt þar upp ágæt veizla; hefir Jón þá af nýju upp orð sín, biðr konungsdóttur sèr til handa, hvað eð honum verðr auðsótt, því at allir menn sjá, hvílíkt afbragð Jón var annarra manna, ok því görr skildu þeir ok undirstóðu hans mikilmennsku, sem vitrari voru ok meira greiningarvit höfðu fengit. Fastnaði þá Jón konungsdóttur, eptir því sem lög ok landsins rèttr stóð til; var þá aukin veizlan, ok drakk Jón þegar brullaup sitt til konungsdóttur með mestu sœmd ok sóma. Annan dag veizlunnar lætr konungr blása til þings í borginni, ok á

því þingi talar hann langt erindi ok snjallt, þakkandi öllum lýð þá hollustu, sem honum hafði veitt verit alla tíma sinnar ríkisstjórnar; sagði ok, at hann var þá mjök hrumr af elli, en átti eptir eina dóttur, er stóð til alls arfs ok auðœfa eptir hann, ok hún var gipt þeim manni, er hann vissi göfugastan í þeim löndum. „Ok því gef ek nú“, segir konungr, „Jóni upp ríkit ok þar með konungsnafn, biðjandi alla ok sèrhvern, ríkan ok fátœkan, at vera honum hollr ok trúr, greiðugan ok góðviljaðan, sem röskva þegna rèttum konungi“. Lauk konungr svo máli, at allir játuðu Jóni fullri hlýðni. Gengu til handa Jóni konungar ok hertugar, barónar ok jarlar, ok sóru honum trúnað, ok eptir þat riddarar ok ríkismenn, ok at síðustu öll alþýðan, ok sleit með því þinginu; en brullaupsveizlan stóð yfir hálfan mánuð, ok at henni afliðinni, gaf Jón konungr öllum ágætar gjafir, hverjum eptir sinni virðingu. Gaf Jón konungr þá Roðgeir ok Roger þat jarlsríki, er hann erfði eptir föður sinn, en Jón var nú höfuðkonungr yfir öllu Hólmgarðaríki, ok átti mörg börn við drottningu sinni, ok urðu þat allir hinir göfugustu menn, er frá honum komu. En af Eiríki er þat at segja, at hann heldr heim til Vallands, áðr út leystr af Jóni konungi með ágætum ok konungligum gersimum. Ok sem hann heim kemr, verðr konungrinn faðir hans ok drottningarnar harðla fegnar, ok litlu síðar andast Vilhjálmr konungr. Tekr þá Eiríkr við ríkisstjórn ok konungdómi, ok var þat

allra manna mál, at hann væri allra manna bezt til fallinn í þeim löndum, bæði sakir ættar ok framkvæmdar ok mikillar maktar. Áttu þau Marsilía drottning tvo sonu; hèt annarr Vilhjálmr eptir föður hans, en annarr Svipdagr eptir jarlinum föður hennar. Ok lyktum vèr svo þessa sögu af Jóni Svipdagssyni ok Eiríki hinum forvitna.

---

# Skýring vísnanna.

1. Á blaðsíðu 12.

Hlífar[1] hljótendr[2] halda[3] aldri á spjóta hlyn[4]. Ek verðr vaka ár[5] veiga skorðum[6] af því fári[7]. Örva sennar ýtendr[8] munu enn flýta orð[9] of mik, at ek verða[10] eigi alltryggr,[11] ef gyggnum[12] nú.

1) Hlífðar í handritinu tel jeg misritað fyrir hlífar; hlíf = brynja eða skjöldur. — 2) hljótendr, þeir sem eignast, eigendur; hlífar hljótendr, menn. — 3) halda á, aptra, tálma, kúga. — 4) hlynr, trje; spjótahlynr, maður. Hlífar hljótendr halda aldri á spjótahlyn, menn kúga mig aldrei. — 5) ár, árla, snemma. — 6) veig, vín; veigaskorða, kona; veigaskorðum, sökum kvennanna. — 7) fár, böl, áhyggja; Ek verðr (= verð) vaka ár veiga skorðum af því fári, ek hef andvökur á nóttum sökum áhyggju fyrir konum. — 8) senn = senna, deila, þræta; örva senn, orusta, ýtendr orustunnar, menn, hermenn. — 9) flýta orð, gjöra orð á, mæla. — 10) virða í handr. held jeg sje eigi annað en ritvilla fyrir verða. — 11) mjög öruggur. — 12) gyggnum = guggnum, svo að aðalhending verði við trygg.

2. Á blaðsíðu 13, neðanmáls.

Tvö fyrstu vísuorðin eru óskiljanleg; en hitt tek jeg þannig saman:

Ek verð gjarn til at hœla stafns gefnar[1] gœlindi[2] fyrir mik[3]. Úlfr[4] veit, hvat[5] (hann) hafði etið. Ek[6] lofa sjálfa fagra sædags Syn;[7] grund[8] grafsilfrs[9] verðr mèr at grandi.

1) Þar sem ritað er gæfnar í handritinu, þá er æ ritað

fyrir e: stafn, bikar, staup; gefn, sú sem gefur; stafnsgefn, kona. — 2) gœðindi í handritinu er auðsjáanlega rangt; því að þá yrði vísuorðið hendingalaust, og virðist auðsætt, að lesa eigi gœlindi (gœl aðalhending við hœl), ginning, það sem ginnir = fegurð. — 3) Ek verð gjarn til at hœla stafns gefnar gœlindi fyrir mik, jeg er fús á, að lýsa því yfir, hversu fögur mjer þykir þessi kona. — 4) Úlfr = Fenrisúlfr. — 5) hvat er getgáta fyrir um. 6) Ek getgáta fyrir ok. — 7. Syn, ein af ásynjum; getgáta fyrir sín; sædagr, birta eða eldur sjávar, gull; sædags Syn, kona. — 8) grund er getgáta fyrir grimmd; grund = jörð. — 9) grafsilfr, grafið silfur, kvennsilfur; grund grafsilfrs, kona; verðr mèr at grandi, fær mèr áhyggju.



## Prentvillur.

Á bls. $4^{18}$: 27. fyrir 28.
- - $8^{15}$: gengið fyrir gengit
- - $19^{26}$: skaðsamlegt fyrir skaðsamligt
- - $22^{10}$: og fyrir ok
- - $39^{12}$: mikillegan fyrir mikilligan.
- - $39^{18}$: mátulega fyrir mátuliga
- - $40^{19}$: vitrlega fyrir vitrliga
- - $40^{22}$: vitrlegra fyrir vitrligra
- - $45^{24}$: frœndr fyrir frændr
- - $48^{7}$: egi fyrir eigi



